# FRIÐÞJÓFSSAGA,

EPTIR

ESAÍAS TEGNÉR.



NORRÆNIR GUNNFÁNAR OG VOPN

# FRIÐÞJOFSSAGA,

NORRÆN SÖGULJÓÐ Í 24 KVÆÐUM,

EPTIR

ESAÍAS TEGNÉR.

---

MATTHÍAS JOCHUMSSON

HEFUR ÍSLENZKAÐ OG GEFIÐ ÚT.

---

REYKJAVÍK.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.

1866.

SKÁLDINU

STEINGRÍMI BJARNASYNI THORSTEINSON

ER ÞÝÐING ÞESSI

Í VINÁTTU OG VIRÐINGARSKYNI

TILEINKUÐ

AF

ÚTGEFARANUM.

MYNDIRNAR:

DREGNAR AF SIGURÐI GUÐMUNDSSYNI,

GRAFNAR AF ÁRNA GÍSLASYNI.

# Ávarp

## til lesendanna og formáli fyrir Friðþjófssögu.

Flestum Íslendingum er kunn sagan af Friðþjófi inum frækna, því hún hefir jafnan þótt vera einhver in fallegasta af inum eldri fornsögum vorum, en svo kalla eg þær sögur, sem segja frá tímanum fyrir byggingu Íslands. Þær sögur eru reyndar flest allar skemmtilegar og þó eitthvað keimlíkar, sem er mjög eðlilegt fyrir því, að þær sagnir, sem öld eptir öld halda söguбúningi og söguheild, án þess þær sjeu skrásettar, hljóta að vera einkennilegar, mergjaðar og stórkostlegar, en verða þó jafnframt svipaðar hver annarri, sakir þess þær segja allar frá líku aldarfari og myndast og varðveitast af einni þjóð með einum þjóðernisblæ, og verður þeim líkt varið og alþýðutrú og alþýðusögnum yfir höfuð. Þó er talsverður munur á þessum sögum og sögnunum, því auk þess, að þessar sögur eru stærri og efnismeiri, eru þær nær sögulegum sanni eða sönnum sögum, enda þótt varla verði sagt, hve mjög þær eru auknar ýkjum og öfgum; svo hefir og skrásetjari þeirra mjög lagað búning þeirra eða form, og þá líka orðið að auka efnið meir eða minna. Þó hefir aðalsagan alls eigi orðið til allt í einu; sýna það auk annars kvæðabrotin, sem einnig eru víða í þeim sagnaflokki, og sem vanalega eru forneskjulegri enn textinn, og einkum allur sá sagnablær, sem á sögunni er, in lausu smáatvik, innskot og eyður, sem

eigi heima hjá munnmælasögunum og æfinlega einkenna alþýðuskáldskap og alþýðumeðferð. Nokkuð öðruvísi er varið flestum inum yngri fornsögum. Þar ber minna á alþýðumeðferðinni, því þar hafa einstakir snilldarmenn meira að unnið að safna til, eða þá að smíða af nýju, hreinsa og draga saman til heildar. Þá fram kemur fullmynduð saga, sögu-listasmíði, eins og t. a. m. Njála, Egilssaga, Víglundarsaga, Bragðamágusarsaga, o. fl. Þess vegna verða menn að gæta þess um inar eldri fornsögur og sumar inar nýrri, að þær eru engin listaverk eða fullmyndaðar sögur, hversu skemmtilegar sem þær kunnu að vera, og hvort sem þær eru skoðaðar sem sannar sögur, skáldsögur, skröksögur, goðasögur eða landvættasögur, og vilji þessara tíma skáld taka efni þeirra til meðferðar, má hann fara með efnið eins og hann vill, ef hann hefir vit á og kunnáttu til að varðveita og hefja til ljósari og hreinni fegurðar in listafræðislegu sannindi fornsögunnar (bæði in almennu og þjóðernislegu) eptir menntunar kröfum síns tíma, og velur sjer eðlilegt og fagurt form. Sama má segja um allar vorar fornsögur, jafnvel Landnámu, Njálu og aðrar helztu sögur vorar, að þær geyma efni í ótöluleg nýrri listaverk, handa þeim, sem gefin er gáfa til að efla menntan vorra tíma, eigi með því að sýna fornöldina álengdar, því það gjöra einmitt sögurnar sjálfar, heldur með því að draga fornöldina niður til vorra daga, með því að samþýða hennar anda vorra tíma anda. Mismunurinn á meðferð innar sönnu fullkomnu sögu og eldri sagnanna er í rauninni engi nema sá, að það er vandfarnara með efnið, þar sem menn trúa, að atburðirnir hafi orðið í þeirri röð, sem sagan segir frá,

og er þar sagan í vissum skilningi heillög[1]. Nú kunnu menn hjer á landi að svara þessu og segja, að þetta sje hugarburður einn, því að, úr því fornöldin sjé horfin, náist hún eigi aptur, og vorra tíma menn muni varla þekkja fornöldina betur eða geta lýst henni betur enn fornmenn sjálfir gjörðu, enda sje lítil líkindi til, að menn taki nokkurn tíma fram þeirra listaverkum. Þetta er misskilningur. Vjer verðum að kannast við og skilja, að heimurinn hefir tekið miklum stakkaskiptum eins í tilliti til skáldskápar og sögu, sem í öðrum greinum. Það stoðar eigi að lofa eða lasta í blindni, eða láta vanann hugsa og álykta án frjálsar skynsemi; það stoðar eigi að stara gegn um töfra-skuggsjá ýktra fornsagna á löngu horfnar aldir, og segjast svo eigi sjá þar annað enn eintóma óbætanlega fegurð og frægð; það má eigi lofa inar yngri aldir svo, að menn lasti inar eldri, því fornöldin er yngri og óreyndari öld enn vor öld, og mannkynið eldist ávallt og þroskast, en yngist eigi nje hrörnar, nema í óskynsamlegri ímyndan manna, og fornmenn, er vjer svo köllum, voru yngri og ófullkomnari menn í mörgum greinum, enn vjer erum, og báru fleiri æskunnar einkenni, og fyrir því eigum vjer að meta þá og verk þeirra að verðleikum og virða þá með skynsemd, eins og eldri mönnum og reyndari samir. Forn skáld, hvað ágæt sem voru, og hvort þau heldur voru grísk, og hjetu *Hómer* eða *Sofókles*, latnesk, og hjetu *Virgilius* eða *Hórazius*, íslenzk, og hjetu *Egill*

1) Sem dæmi upp á ranga meðferð á sögunni get eg eigi varizt að benda á harmsöguleik Öhlenslægers: „Kjartan og Gudrun“, þar sem hann sviptir Laxdælu öllum söguréttí, auk þess, sem leikurinn er, að mjer finnst, næsta bágur í flestu öðru tilliti.

eða *Sturla*, — ortu eigi og gátu eigi ort til jafns við höfuðskáld vorra tíma, nema að vissu leiti. Standi skáldskapur inna nýrri skálda á nokkru á baki inna fornu, þá mun helzta orsök þess vera sú, að menn hafa eins og heillast af fornöldinni, bundið sig ósjálfrátt við hana, og það orðið tízka, að menn stældu og margstældu fornskáldin langt fram úr öllu skynsamlegu hófi. Þetta hefir staðið mörgum inna yngri fyrir andlegum þrifum, margvíslega slekkt og truflað þjóðernisanda manna, og stundum hleypt kyrking í hugsmíðaafl þeirra, og bundið þá við eintómt formið, svo að þeir hafa orðið eintómar eptirhermur löngu liðinna alda í margvíslegri, óþjóðlegri andlausri stefnu[1], í stað þess að þeir hefðu átt að semja og getað samið eitthvað nýtt og þjóðlegt til eðlilegra framfara sinni öld og sinni þjóð. Með þessu vil eg þó alls eigi niðra fornskáldunum eða listaverkum fornmanna; þau voru ágæt á sinni öld hjá sinni þjóð; þau eru ágæt á öllum öldum út af fyrir sig; þau voru ágæt, ómetandi og nauðsynleg til að kveikja aptur mannvit og menntir, til að vekja aptur andans frjálsu, lifandi öfl, sem svo lengi höfðu legið í köldum dvala um miðaldirnar, til að minna menn á að leysa tunguhapt þjóðmálanna, til að kenna meðferð skáldskapar og eigi sízt fagurt form, sem, ef til vill, má enn lengi hafa til fyrirmyndar. Óhætt er og að segja, að flestar inar heillaríku, andlegu framfarir síðari tíma eigi menn, næst forsjóninni, að þakka inum fornu bók-

---

1) Vilji menn sjá þetta af inu einstaka, þ. e., af dæmum, verða þeir sjálfir að bera saman fornar og nýrri bókmenntir og dæma þar eptir, en þeir, sem eigi fallast á þetta álit mitt, munu eigi trúa betur, þótt eg nefni einhverja rithöfunda.

menntum, einkum vísindunum fornu, sem hvervetna eru undirstöður inna nýrri fullkomnari vísinda. Þetta hafa menn líka fundið og viðurkennt, svo lof og vegsemd fornaldarinnar, einkum Grikkja og Rómverja, hefir hvervetna bergmálað, eins og gullaldir þeirra, menntir og málfæri væru guðdómlegar, eilífar fyrirmyndir, og gengur þessi undran og aðdáan í ýmsu tilliti hjá mörgum langt úr hófi, því auk þess, sem eg áður minntist á skáldskapinn, er það sannarlega íhugunarmál, hvort þolanda sje, eða hvort það eigi muni vera barnaskapur, að minnsta kosti hjer á Norðurlöndum, að láta in suðrænu dauðu fornmál halda fyrirrúmi langt fram yfir in nýju, lifandi aðaltungumál þessara miklu tíma, sem vjer lifum á, og jafnvel fram yfir *þjóðmál sjálfra vor.* En látum skörunga aldar vorrar taka við þessari spurningu; hjer er eigi tími eða hentugleiki til að svara henni, enda skortir mig margt til þess, svo vel sje, því það er vandamál, sem eigi má flana að, en sjá þykist eg, hvað stefna tímans vill í þessu. Að hinu vil jeg spyrja: Hvernig gátu fornskáld staðið í öllu jafnfætis inum nýrri þjóðskáldum? Leiðir eigi þroski og framfarir andans af þroska og framförum heimsins yfir höfuð? Vjer vitum þó, að síðan í fornöld er þessi heimur vor orðinn æði-mun fullkomnari enn hann var þá, því in miklu sannindi, sem menn hafa upp götvað fyrir reynslu og vísindi, með elju og erfiði, hafa fleygt honum áfram; rúmið, t. a. m., sem löngum hefir takmarkað og fjötrum bundið, eigi einungis fætur manna og hendur, heldur og hugi og hugsanir, með víðáttu, þrengslum, vindi og sjó, því er nú nálega rutt úr vegi með gufumagni, rafurmagni og öðrum höfuðskepnum,

er engi maður áður þekkti, heldur einungis, þegar bezt ljet, spáði um með töfra og kynjasögum. Skyldu eigi slík stórmerki smámsaman lypta anda mannsins á æðra stig? Og þótt minna beri, ef til vill, á framförunum í ríki siðferðisins, þótt in guðlegu rök, sem ráða lögum lífs og anda (náttúrulögin eru fundin), sjeu enn og ávallt verði fyrir ofan greindarkrapt vorn, þá hafa menn þó síðan á fyrri öldum kannað margt eitt djúp í mannlegu hjarta og mannlegri sálu, sem áður var ókunnugt eða þá í þoku. Menn segja má ske móti þessu, að hugsmíðaafl skáldanna sje eigi bundið við meiri eða minni þekkingu og reynzlu, og því hafi fornskáld getað ort eins ágætlega fyrir það. Það er og víst, að menn geta verið eins og *Shakspeare óstúderaðir*, og verið in beztu höfuðskáld, en eigi án hins, að hafa í sjer kjarna almennrar menntunar og þekkingar sinna tíma; það hafði ið mikla Bretaskáld, og það hafa flest þjóðskáld haft til að bera. En um þetta á eigi að þræta, með því að atburðirnir sjálfir skera úr. Eða hefur nokkur maður í fornöld lýst mannlegri sál á við Shakspeare? Hvaða fornskáld hjá Grikkjum eða Rómverjum snertir hjarta þessara tíma manna betur enn *Schiller?* eða fræðir og skemmtir á við *Walter Scott?* Hvað er *Hórazius* sem skáld í samanburði við *Esaías Tegnér?* — maður, sem í ströngum skilningi var lítið eða ekki skáld, heldur orðhagur, lipur og lærður hirðmaður, leikinn í að segja smellin orð og lána frá Grikkjum? Það er að sönnu eðlilegt, að margir hafi fest ást við mörg in fornu ljóðmæli, af því þeir lásu þau í æsku, meðan tilfinningin var næmust, og menn þekktu eigi annað betra, en heyrðu þetta sílofað og vegsam-

að. Nei vjer megum vera sannfærðir um, að forsjónin hefði fyrir löngu hætt að »uppvekja þjóðunum spámenn«, ef inir gömlu væru óbætanlegir og ættu jafnvel við alla tíma. En því er nú öðruvísi varið. Ið forna á einungis að vera efni og undirstaða ins nýja. Það er satt, að þegar lýsa skal hreystinni, stórkostlegum skapsmunum, öllu römmu og forneskjulegu, þá stendur allt slíkt með stóru letri og samboðnu orðfæri hjá fornskáldunúm, og því er gott og stundum ómissandi að lesa rit þeirra, helzt á frummálinu, því þótt efnið sje margtekið upp í in nýrri mál, finnst inn upprunalegi andi sjaldan nema á frummálinu. Vilji menn þar á móti þekkja sína tíma, og lifa fyrir þá, eða vilji menn skyggnast inn í hugskot manna og heilla þjóða, og rekja þar sundur inn smágjörva vef tilfinningarinnar, vilji menn læra að átta sig í inu dimma völundarhúsi ástríðanna, eða þýða ið mikla furðuverk drottins, mannlega sálu, eða lýsa inni óumræðilegu dýrð náttúrunnar, eða spá um framfarir ókominna alda, þá hljóta menn að lesa in nýrri skáld, þótt aldrei væri nema Shakspeare einsamlan[1], enda þótt sumt í meistaraverkum hans sje einnig tekið að verða nokkuð fornt við vora tíma. Hvernig er þá fornmanna skáldskapur rjett með farinn? Um inn suðræna vil eg eigi tala fleira, en viðvíkjandi inum norræna, þá er það auðvitað, að vjer eigum jafnan að geyma hann í heiðri, þekkja hann, læra að meta rjett, og um fram allt að nota hann rjett.

1) T. a. m., Romeo og Juliet, Othello, Mackbeth, Lear, Hamlet, Jónsmessunóttina og Storminn. Í þessum ritum eru öll in stórkostlegustu atriði mannlífsins sýnd og saman sett með feykilegri snilld, speki og íþrótt.

En hvernig á þá að nota hann, svo rjett sje? Hann á, hvort heldur hann er í sögum eða kvæðum, að verða að *nýrri lifandi lind til frjóvgunar og fjörgunar vorum öldum*. Inar fornu ágætu sögur vorar (því einnig sönnu sögurnar lúta hjer að) hafa lengi verið þjóðskemmtan þessa lands, og hafa, eins og von er, innrætt mönnum undran og eptirsjón á fornöldinni, en því miður hefir þar við lent hjá öllum þorra manna; menn hafa setið róandi, eptir sem áður, og horft aptur fyrir sig á liðinn tíma, án þess að dæmi inna ágætu forfeðra hafi getað »eggjað þá lögeggjan« til fjörs og framkvæmda. Nei, þeir hafa einungis, þegar bezt ljet, farið að kveða rímur og tuggið upp ið magra sannmæli: »Nú er öldin önnur«. Áhrif inna fornu bókmennta hefir þannig orðið mjög lítið hjá alþýðunni hjer á landi, því það, sem farið er að glæða menntan og fegurðartilfinning hennar á þessari öld, er eigi allt af þeim toga spunnið, og stefnir eigi allt í rjetta átt[1]. Af hverju hefir þá ávöxtur inna fögru, þjóðlegu fornfræða orðið svo rýr hjá oss? Orsakirnar eru margar og liggja djúpt, en in listafræðislega er sú, að oss vantar *miðliðinn*; það vantar þá menntan, sem samþýðir fornöld og nútíð, sem þýðir svo ið forna, að það geti orðið lífskveikja í inu nýja. Ef vjer eigum að verða mennt-

1) Þó megum vjer eigi gleyma því, að viðreisn þjóðtungu vorrar, og framfarir og glæðing bókmennta vorra síðan á fyrri öld, fjekk og hefir fengið lífsefni sitt frá fornöldinni, enda þótt hvatirnar lægu í anda tímans og kæmu víðar að. Sá maður, sem einna skörulegast sameinaði fornöld og núöld í andastefnu, þekkingu og framkvæmdum var vafalaust Eggert Ólafsson; hann var hróðmögur ins forna Íslands og óskabarn ins unga.

uð þjóð, að sama skapi og í sömu þjóðernisstefnu, sem forfeður vorir voru á þeirra tíð, þá er oss hvorki nóg að þylja þeirra rit, undrast þau eða þá, en halda svo höndum saman, eða þá stæla þeirra rit, heldur ættum vjer að finna inn sanna þjóðlega kjarna fornaldarinnar, varðveita hann, og taka efnið þaðan, en sníða svo og smíða eptir kröfum vorra tíma, því við það yngjum vjer upp og samþýðum oss fornöldina, en glæðum um leið og menntum vora öld, því á fornrituðum fróðleik fræðist alþýðumaðurinn nálega eingöngu um horfinn tíma, en eigi um sinn tíma. Þetta hafa nú frændþjóðir vorir á Norðurlöndum orðið fyrri til að sjá enn vjer, og því er tími til kominn að vekja athygli á þessu. Í þessa nýju stefnu er Örfar-Odds drápa ort, og er það rit in eina bók (að fráskildum rímunum), sem Íslendingar hafa enn kveðið um fornöld sína. En hvað viðvíkur frændum vorum á Norðurlöndum, þá má fyrstan telja Öhlenslæger, þjóðskáld Dana, † 1850, þann er svo að segja fyrstur tók að yrkja um fornöld vora, öndverðlega á þessari öld, ýmist söguljóð (episk kvæði), eins og »*Helge*« og »*Nordens Guder*«, eða þá harmsöguleiki, eins og »*Thors Reise til Jötunheim*«, »*Hákon jarl*«, *Palnatoke*«, »*Væringerne i Myklegard*«, og fl. Þessi nýja stefna, sem *Öhlenslæger* hóf, átti svo vel við tíma og þjóð, að nálega komst allt á lopt á Norðurlöndum, og kepptust allir við að hylla inn nýja skáldaspilli. Í fótspor hans hafa síðan gengið ýms önnur skáld Dana, t. a. m., *Ingemann*, † 1863, sem hefir ritað skáldsögur um fornöld og miðöld Dana, *Grundtvig* og *Hauch*, o. fl. Þessi skáldskapur Dana er óneitanlega sannari, hraustlegri og kjarnameiri, enn margt í inum

svo nefnda *rómantíska* skáldskap; en svo kallast einkum sá kveðskapur, er fylgir andastefnu miðaldanna[1], en þó kippir Dönum mjög í það kyn; enda er þjóðerni Dana og öll þeirra menntan annars vegar háð og skyld Þjóðverjum, en þar á *rómantíkin* enn óðal sitt[2]. Einkum þykir mjer miðaldablærinn einkenna of mjög rit *Ingemanns* og *Grundtvigs*. Um rit *Öhlenslægers* má margt segja. Hann var hamhleypa að rita, mjúkur og liðugur í andanum, og unni nær öllum andastefnum jafnt, en tekst æði-misjafnlega og er stundum laus á kostunum í sínum norræna kveðskap. Ið bezta norræna harmleikaskáld er efalaust norðmaðurinn *Björnstjerne Björnson*, sem nú er maður á bezta aldri, og leikur hans »*Sigurður Slembir*« finnst mjer miklum mun norrænulegri enn flest hjá Dönum og Svíum, er ég þekki til, að undanteknu mörgu í Friðþjófssögu. Um sama leiti og Öhlenslæger tóku Svíar að fylgja hans dæmi og reyna iþrótt sína á sama efni. Risu þar upp tveir flokkar skálda; kölluðu aðrir sig »*Phosforista*«, og hjet inn helzti þeirra *Atterbom*, † 1855, ágætt skáld og nafnfrægur fyrir ýms listaverk; þeir voru þýðverskir í anda, og unnu mjög *rómantíkinni*. Þessir gáfu út listafræðisritið »*Phosforus*«. Hinn flokkurinn nefndi sig *Gauta* (»*Götiska förbundet*«); þeirra rit hjet *Iduna*, og forsprakki þeirra *Geijer*, professor í Uppsölum, † 1847, einhver inn mesti og bezti snillingur Svía á síðari tímum, jafnaldri *Tegnérs*,

1) Stundum kallast **romantík** allur nýrri tíma skáldskapur, sem eigi er stæling ins **classiska**.

1) Höfuðskáld Þjóðverja í inni betri þjóðlegu stefnu þessa anda á fyrri hluta þessarar aldar telja margir **Ludwig Tieck**, † 1853, hjá Frökkum **Victor Hugo**, hjá Englendingum **Walter Scott**, † 1832, hjá Svíum **Atterbom**, og hjá Dönum **Ingemann**.

og svipaði þeim saman í ýmsu. Hann var jafnan átrúnaðargoð inna ýngri manna, því hann var síungur og jafnan andríkur, nálega í hverju, sem var. Hann hefir ort ýms ágæt smærri kvæði norræns anda; eitt heitir »*Vikingen*«. *Gautar* þessir vildu leggja norræna fornöld til grundvallar, en hinn flokkurinn og flestir aðrir menntaðir Svíar kölluðu það óráð; sögðu, að menn legðu til grundvallar hálfmenntan og harðneskju og hálfskapað þjóðerni, sem eigi hefði verið búið að ná festu og sannri lífsstefnu, og mættu menn eigi byggja á öðrum fornfræðum enn þeim, er sjálf geymdu í sjer sanna menntan (suðræn fræði), eða þá almenn sannindi (romantíkina). Þá kom *Esaías Tegnér* fram með Friðþjófssögu sína, og er óþarfi að orðlengja um hana, nema segja það, að hún gagntók alla Svía þegar í stað, og fyllti þá undran og unaði, og hefir hlotið langmest lof af öllum skáldskaparritum, sem nokkurn tíma hafa samin verið á Norðurlöndum. Friðþjófssaga kom fyrst út í brotum í »*Iduna*«, og eigi fyrr enn 1825 í heilu lagi, en um 1840 var búið að þýða hana á nær öll þjóðmál Evrópu, jafnvel nýgrísku, og sumar þjóðir, eins og Þjóðverjar og Englendingar, eiga margar þýðingar hennar[1]. Síðan hefir engi þorað að segja, að norræn fornfræði geti eigi verið yrkisefni vorra tíma. Tegnér sjálfur hefir ritað formála fyrir Friðþjófssögu, og vil eg geta nokkurra athugasemda hans. Fyrst getur hann um misskilning landa sinna á inu forn-norræna, er sögðu, að eigi mundi mega yrkja svo út af því, að þessi öld gæti eins

1) Einna beztar og frægastar þýðingar Friðþjófssögu munu vera in 4. þýzka eptir G. Berger og in 3. enska eptir inn andríka prófessor G(eorge) S(tephens) Stockholm 1839.

og sjeð sjálfa sig í skuggsjá, því án þess væri allur skáldskapur óþjóðlegur og ónýtur. Þar næst minnist hann á meðferð sína á fornsögunni, og segir þá meðal annars: »Ætlan mín var alls eigi sú að snúa sögunni blátt áfram í ljóð, enda hefir II., III., V., XV., XXI., XXIII. og XXIV. kvæðið lítið eða ekkert efni fengið úr þessari sögu, en stundum úr ýmsum öðrum Íslendingasögunum. Eg ætlaði mjer að sýna norræna hetju. Eg vildi sýna Friðþjófs öld með Friðþjófi. Og þótt eg varðveitti megin-atriði sögunnar, þóttist eg eiga rjett á að nema burt og bæta við samkvæmt tilgangi mínum. Margt er stórkostlegt og hetjulegt í sögunni, sem á við alla tíma, og hlaut því að halda sjer, en þar er líka ýmislegt tröllaukið, klúrt og grimmdarlegt, sem annaðhvort varð burt að falla, eða eg varð að þýða og lempa og laga það eptir rjettum fegurðarkröfum og hugsunarhætti vorra tíma. En þá óx vandinn, því kvæðin máttu eigi að heldur missa ið þjóðernislega, inn forna hraustlega og eðlilega hugsunarhátt. Þess vegna urðu þessi ljóð að anda að manni svölu vetrar-lopti, næða norðangusti, því slíkt er einkenni norræns heimkynnis og skapferlis; þó máttu eigi verða svo mikil brögð að þessu, að kvikasilfrið frysi, eða öll innileg viðkvæmni hyrfi úr mannlegu hjarta«. Þar næst minnist hann á skaplyndi það, er hann hefir innrætt Friðþjófi, sem er miðdepill kvæðanna; lætur hann hann fyrst og fremst vera drenglyndan, hraustan og hugumstóran, eins og allar sannar hetjur voru og verða að vera, en þar hjá kveðst hann hafa reynt til að láta Friðþjóf sýna eitthvað einkenni norrænunnar, ið framgjarna og óbilgjarna fjör og áræði, og því láti hann Ingibjörgu segja um Friðþjóf:

»Hve glaður vonsæll, hugdjarfur og hraustur
hann hristir nakið sverðið rjett við brjóstið
á sinni norn og segir: »hopaðu' undan!« (VIII. kv.)

og segir skáldið, að þessi orð sjeu lykill að skaplyndi Friðþjófs og anda kvæðanna. Þar næst nefnir hann annað einkenni norræns skaplyndis, sem sje einhver dapurleiki eða þunglyndi, sem þó eigi komi í neinn bága við heilbrigt lífsfjör, heldur gefi því kjarna og stæling að meiri. Þess vegna eltir Friðþjóf óyndi vegna Ingibjargar, heimfýsi, og hugsýki út af missætt sinni við Baldur, sem hvetur hann að lokum til að leita friðar og sætta. Þá talar hann um kvæðið: »Skilnaður Friðþjófs og Ingibjargar«, og vill rjettlæta þá tilfinningarsemi, sem sumir hafa borið því kvæði á brýn, með virðingu fornmanna fyrir konum og inu fagra og skíra ástalífi, sem opt kemur fyrir í sögunum og það löngu á undan inni suðrænu riddara-öld. Loksins minnist Tegnér á form sitt, er hann kveðst hafa valið eptir *Ölenslægers* »*Helge*«. Segir hann, að þetta *rómansá*-form sitt þyki raunar mörgum skemma þá heild og einingu, sem menn heimti af söguljóðum, en sem þó auðveldlega getur orðið eintrjáningsleg. En þessi frjálsari meðferð heimtar líka meiri umhugsan, skilning og smekk, þegar velja skal samkynja form (bragarhætti) hverju kvæðisefni fyrir sig. Kveðst hann því hafa stælt ýmsa forna (gríska) háttu (eigi bragi), sem áður höfðu eigi verið notaðir í Svíþjóð, t. a. m., á II. (í sænskunni), XIV., XV., XVI. og XXIV.[1]

1) Margir hafa ort bragi við kvæði þessi. Inir helztu og frægustu eru eptir Crusell, sem var söngmeistari Svíakonungs og dó 1839.

Hvað þá snertir þýðingu þessara kvæða, þá vil eg geta þess, að eg rjeðst í þetta vandamikla starf, af því, að eg er hrifinn af snilld höfundarins, fegurð kvæðanna og engu síður braganna, sem eg vildi reyna til að gjöra löndum mínum girnilegri og auðnumdari, er þeir kvæði þá á sína tungu. Nótur að þeim get eg því miður eigi látið prenta í þetta sinn, því prentsmiðjan á ekki nótnastíl til. Öllum bragarháttum, sem kveðnir eru, hefi eg haldið svo nákvæmlega rjett, sem eg gat; einungis er II. kvæðið með fornyrðalagi, því sænska bragarhættinum fannst mjer eigi fært að halda, ef meðferð efnisins eigi skyldi fara út um þúfur. Hátturinn átti að vera svona:

»Á sverð sitt hallast Beli í háum sal,
við hlið hans Þorsteinn Víkingssonur, bóndaval,
inn gamli hilmis vinur, nær hundrað ára
með hjörvaspor á enni og fannir hára«.

Flest kvæðin eru kveðin með svo nefndum *jambiskum* hætti (með hraðliðum), en svo kallast hver sá háttur, þar sem stutt atkvæði (eins og *og, að, því, það,* o. s. frv.) fer ávallt fyrir löngu eða þungu atkvæði. Þetta til heyrir suðrænum háttalögum (metrík) og þekkist eigi í forn-norrænum kveðskap, er líka óeðlilegra vorri tungu, og stöðvar hrynjanda hennar og þunga, en til þess að gjöra mitt til, að bragirnir aflagist eigi, og þeir sje sem liðugastir, hefi eg víðast hvar gætt þessara hraðliða, nema sumstaðar í bragleysu-háttunum: VIII., XII. og XIV., og þó kann ske of mikið, því þar er ekkert komið undir jambus, heldur undir því, að hrynjandinn verði smellinn og rjettur framburður eða áherzla lesaranum sem auðfundnast. Í Víkingabálki eiga tvær stuttar

samstöfur að ganga fyrir (anapaestus), og vjek eg, eða hlaut að vilja, sumstaðar frá þeirri reglu, en setti þrjá stuðla (eða fjóra ljóðstafi) til að lina með þungu samstöfurnar, sem áttu að vera stuttar, og má þá bragurinn vel fara, hvort sem lesinn er eða kveðinn. IV. og V. kvæðið þykja víst eitthvað óviðfeldin í tilliti til bragarháttanna, en þau eru eptir sænskunni, og eru þar eigi heldur öll vísuorð alstaðar jafn-atkvæðamörg; eg veit og ekkert um bragi við þau.

Um það, hvernig þýðing mín hefir tekizt í smáu og stóru, gefst nú hverjum um að dæma sem les hana, og ber saman við frumritið. Eg bið skynsama menn og góðgjarna að afsaka gallana, og vonast eptir, að þeir finni og játi, að þýðingar meistaraverka sje bæði torveldur starfi og þó óþakklátur, einkum þegar sömu bragarháttum er haldið. Tvær eru aðferðir, þegar þýða skal; önnur er sú, að taka efni frumritsins, en binda sig eigi við orð nje hætti, en þá er mjög hætt við, að blærinn týnist og ritið verði of ólíkt, og þó nálega ætíð lakara enn frumritið; önnur er sú, sem eg hefi fremur við haft, að hafa þýðinguna sem næst orðunum, sem verða má; þá er nú venjulegi gallinn sá, að málinu verður ofboðið og þýðingin smekklaus og stirð; því opt er það, að það, sem gullfallegt er á einu máli, verður að óskapnaði á öðru máli, ef orðin eru þrædd eptir orðabókum. Þetta kemur af því, að þjóðmálin eru þjóðbúningar andans, sem eiga að klæða hann óendanlegri fjölbreytni formsins, en einnig óendanlegri einingu fegurðarlögmálsins, sem opinberuð er hverri þjóð á *vissan* hátt og í *vissum* mæli, og er þetta eitt af því, sem gjörir mismun þjóðernanna. Af þessu kemur það og, að hver þjóð er and-

leg heild, sem að nokkru leiti er út af fyrir sig, og þess vegna er það synd móti andanum að misþjóða þjóðerni manna. Og þetta er eins víst, eins og hitt, að það má prjedika of mikið um þjóðerni og þjóðmál, og ala með því þjóðdramb og aðra hleypidóma. Í meðferð málanna ríður mest á að gæta innar fögru einfeldni, sem sýnir efnið eða andann undir eins, því það er rangt að láta formið (kenningar og dýra bragarháttu) flækja efnið og kæfa eða byrgja andann, eins og fornmenn gjöra svo opt, og eigi er þeim heldur að hrósa, sem nota málið fremur til fordildar, enn í þjónustu sannleikans, sem sumum hættir við, er nú lifa. En menn ættu að muna eptir því, að með fordildinni vinna menn aldrei hjörtun. Tegnér var einn þeirra fáu skálda, sem gat leikið sjer að tungu sinni, eins og hann vildi, en níddist þó aldrei á henni til þess að »gullinkamba» og »fimbulfamba« út í bláinn. Það er annað, sem mætti, ef til vill, bera honum stundum á brýn, sem er það, að hann er vel íburðarmikill af samlíkingum og lausum spakmælum (sentenser og aforismer).

Það, sem inir sárfáu ritdómendur, sem hafa niðrað Friðþjófssögu, t. a. m., inn frægi J. L. Heiberg, † 1864, hafa þótzt finna henni að sök, þá kann sumt af því að vera rjett, en fleira mun vera sprottið af misskilningi eða öðru verra, og allt hvað mikill Heiberg var, þá getur hann miður talað um *norrænan anda* eða norræn fræði, því af ritgjörð hans um Friðþjófssögu er bersýnilegt, að hann einmitt vantar norrænan skilning á norrænni menntan, og var það mikill skaði um slíkan mann. Öhlenslæger var honum miklu fremri í þeirri grein. Það samir nú eigi að fara hjer út í ritdóma um kvæði þessi,

en þó vil eg geta þess, að það er varlegt að kenna höfundinum um *sentimentalitet* (þ. e., að hann sje of viðkvæmur og mjúkur, þar sem allt á að vera samhljóða skapferli og siðum víkingaaldarinnar), fyrr enn menn þekkja vel Eddukvæðin; þar finna menn *sentimentalitet!*[1] Að Tegnér hafi valið sjer það efni, sem sje óhæfilegt í söguljóð (ó-episk), af því að fornsagan hafi upphaf og enda, eða sje eins og lokuð heild, þá skil eg það eigi, og eg efast um, að nokkur söguþjóð hafi nokkurn tíma skilið þá nauðsyn, þrátt fyrir allar suðrænar fyrirmyndir. Norrænn maður spyr ætíð um *upphaf* og *enda* á hverri sögu, og setning Hóraziusar: *ruere in medias res* (o: byrja á miðju efni) er, þegar öllu er á botninn hvolft, eigi byggð á öðru enn því, að Hómer við hafði það form. Eða mundi oss þykja Hómer ljótari, þótt honum hefði þóknast að segja oss meira um um upphaf og endalok Trójustyrjaldar enn hann gjörir?

Hvað snertir útlistan höfundarins á heiðnum átrúnaði í seinasta kvæðinu, þá má vel vera að mörgum geðjist það miður enn annað í Friðþjófssögu, eigi sízt í þýðingu; en stefna skáldsins er þar að mínu áliti bæði háleit og rjett; háleit er hún, af því að þar er leitað að inu æzta miði lífsins, inum æzta sannleika, en rjett er hún, að því leiti sem kristindómurinn er þar óbeinlínis látinn svara mörgum inum dýpri spurningum heiðninnar, því hann gjörir það óneitanlega. Það er sjálfsagt, að veruleg íhugan (reflection) á átrúnaði manna vaknaði eigi (og mátti eigi vakna) hjá heiðingjum fyrst

1) T. a. m., í Helga kviðu Hundingsbana inni síðari, þar sem inni dýpstu og heitustu tilfinningu mannlegs hjarta er lýst með svo aðdáanlegri viðkvæmni og fegurð, að eg hefi eigi heyrt þvílíkt.

lengi, en við nálgan kristindómsins (og við þann tíma miðar skáldið hjer sögu sína) hlaut þessi athugi (andvari) að vakna, sá athugi, sem eitt af þrennu gjörði menn rammari heiðingja enn áður (sbr. Hákon jarl), eða kom mönnum til að »trúa á mátt sinn og megin« (einkenni víkinga og afreksmanna), eða þá til að taka fúslega við kristninni, sem var einkenni margra spakra manna og siðlátra, sem gátu ráðið andastefnu tímans, og þráðu siðabót á ójöfnuði og forneskju.

Útlistanir skáldsins á hringnum í II. kvæðinu eru grundvallaðar á getgátum Finns Magnússonar í þá stefnu.

Á einum stað í Friðþjófssögu varð eg var við bersýnilega ósamkvæmni, hvað tímann snertir (anakronisme), en það er lýsingin á höllu Angantýs jarls, sem er of miðaldaleg, enda var menntan Orkneyinga í engu fremri enn Norðmanna, nema ef miklu síður var. Þó á óneitanlega vel við að láta þá Friðþjóf fá fagrar viðtökur, er þeir koma úr tröllahöndum til siðaðra manna.

Að svo mæltu kveð eg Friðþjófssögu, og sel hana Íslands sonum og dætrum, og óska þess, að hún megi eins launa þeim, sem lesa, þeirra ómak, eins og hún hefir launað mjer mitt erfiði, eigi með gróða nje gjaldi, heldur með fegurð og unaði andans.

*Þýðarinn.*

# Yfirlit efnisins.

NORRÆNT VÍKINGASKIP.



»Geysa lofa þú lung, sá, sem lægir, er gauð,
þóttú löðranda stefnir á grunn«. (XV. kv.).

I.

# Friðþjófur og Ingibjörg.

—

Á Hildings garði greru í lund
tvö gullin blóm um sumarstund,
og friðar nutu' und fóstra höndum;
ei fegra grær á Norðurlöndum.

Og annað spratt sem aldinbjörk,
sem unir bein á grænni mörk;
en krónan hvelfda hægt sjer ypptir
sem hjálmi efldur kappi lyptir.

En annað spratt upp eins og rós,
þá út eru brunnin vetrarljós;
en vorið, sem það glitblóm geymir,
í glæstum knappi enn þá dreymir.

En stríðan þreyta stormaleik
in sterka hlýtur skógareik,
og rósin opna rjóða munninn
við röðuls hlýtur geislabrunninn.

Þau fæddust upp við frið og leik,

og Friðþjófur var nefnd sú eik;
en munarrósin meginblíða
var mærin, Ingibjörg hin fríða.

Ef sveininn þann með baugabrú
á björtum degi litir þú,
á brúðardanz úr sjafnarsölum
þú sjá í jarðar þættist dölum.

En danzi þau á mærri mörk
við mánaljós í kring um björk,
þar álfakóng og huldu hvíta
þú hyggja myndir þig að líta.

Hve hróðugt sveinninn hreifði brún,
er hafði fyrstu numið rún;
hann þóttist taka himinn hendi,
og hana Ingibjörgu kenndi.

Að sigla gnoð um sílarann
með svanna ungum kætir hann;
hún klappar saman hvítum höndum,
er hleypur fley með seglum böndum.

Svo hátt hann hvergi hreiður sá,
að hennar vegna' ei þyrði ná,
og örninn, sem býr ofar fjöllum,
hann ungum sínum rændi öllum.

Og vatnaföll þótt væri ströng,
hann vóð með granna silkispöng;

og undir römmum iðu-fossi
hann undi dável mjúkum krossi.

Þá fyrstu jurt, er blóma bar,
og berið fyrsta', er þroskað var,
og öxin gyllt frá grænum stöngum,
þau gaf hann Ingibjörgu löngum.

En barnið vex, og æfin ótt
í ungan mann því breytir skjótt,
sem frána kyndir augum elda,
og ýngismær fær barminn hvelfda.

Til veiða einatt vaskur gekk
og voðinn lítið skelfdi rekk,
því hlífarlaus á björninn bráða
með berum höndum þorði ráða.

Og svo til rammrar glímu gekk
við grimman varg, og sigur fjekk,
og feld bar heim — mun fagur svanni
ei fagna dável komumanni?

Því hetjan geðjast hringaná;
ið hrausta' og fagra saman á,
sem hjálmurinn að hvelfdu enni
á hraustu fellur afreksmenni.

Í eldaskála opt um kveld
hann undi sjer við bjartan eld,

og kvað um glæstar goðahallir,
er gyðjur byggja' og tívar allir.

»Sem mánageislum glói sjár,
er gult«, hann mælti, »Freyju hár;
um Ingibjörg það eins má skilja,
sem ofin á guðvef rós og lilja«.

Und grænu silki Iðunn á
svo íturvaxinn barm að sjá,
og veit eg barm und líni ljósu
sem leiptri mjöll í kring um rósu.

Hún Frigg á augu björt og blá
sem blíðan himinn til að sjá;
og brár eg þekki blíðu-djúpar
sem bjartan vordag móðu hjúpa.

Á mjöll sem norður- leiptri -ljós
menn lýsa Gerðar vangarós;
eg vanga man, sem mætti skoða
á morgni tvenna sólarroða.

Sem Nönnu hlýja' af hjartans rót
(þótt hugsi færri) veit eg snót.
Þú hvíti Ás! af hýrri Nönnu
ert hróðri leyfður víst með sönnu!

Eg biði feginn banastund,
ef blíð mig grjeti silkihrund,

sem Baldur grjet in blíða Nanna;
þá byggði' eg glaður Heljar ranna«.

En sjóladóttir sat að vef
og söng um ungar hetjur stef;
í dúka óf hún afrekssögur
og unnir blár og löndin fögur.

Hún kunni að tvinna táhreint gull
í tjörgur o'n í hvíta ull;
á lopti voru blóðgir brandar,
en brynjur voru úr silfri þandar.

En ásýnd hver, sem myndar mær,
svo mikla Friðþjófs líking fær,
að sólar öldu rósin ríka
má roðna við, þótt brosi líka.

En hvar sem Friðþjóf björk að bar,
á börkinn *I* og *F* hann skar;
þær rúnir eins við yndi og gaman
og ungu hjörtun tengdust saman.

Þá drottinn foldar, dagurinn hár,
af djúpi reis með gullnar brár,
og gumnar lífsins glaumi undu,
þau gleyma hvorugt öðru mundu.

Þá birtist móðir miðgarðs há,
in mjúka nótt með dökkva brá,

og hljótt var allt um himingeima,
þau hvort um annað mundu dreyma:

»Þú fold, er sjerhvert frævist ár,
og fögrum lauki skreytír hár!
ó, lof mjer blóm þín fríðust fljetta,
og Friðþjófi þann blómsveig rjetta«.

»Þú Ránarver í svölum sal,
er sváslegt þekur perluval!
ó, gef mjer perluband þitt bezta
um brúðar minnar háls að festa«.

»Þú knappur efst á Óðins stól,
þú auga heimsins, gullna sól!
ef ætti' eg þig, eg óðar vildi
minn ástvin sæma glæstum skildi«.

»Þú herjans salar blysið bjart,
inn bleiki máni, njólu skart!
þig vildi' eg geta gefið henni
í gullmen á ið bjarta enni«. —

En Hildingur við hetju kvað:
»þú hyggja' ei skalt á ráðið það;
ei jafn er hlutur höldum skorinn,
því hringasól er konungborin.

Og upp til Hárs í herjasal
fær hún sitt rakið ættartal;

en Þorsteinsson er þú; ið jafna
æ þýðist bezt; því meyju hafna«.

Inn frækni hló: »í feiknardal
eg feðra minna sæki tal,
því hjarkavald eg hana seldi,
og ber hans tign í loðnum feldi.

Inn frjálsi má ei hopa á hæl,
en heiminn kalla má hann þræl,
og auðnuþrot má bætur bíða,
því buðlungsdjásn á vonin fríða.

Styrkurinn er frá Þrumuþór,
og því er hreystin ættarstór;
og Þór spyr seint að ætt og auði;
og efldur er biðill hjörinn rauði.

Um brúði unga eg berjast skal,
þótt banni Þór með reiddum fal.
Svo lifðu heil, mín hvíta lilja,
og heiptir þeim, er vill oss skilja!«

II.

## Beli konungur og Þorsteinn Víkingsson.

—

Stóð þar stillir,
studdist geiri,
Beli í höllu,
en hjá bragningi
vitur stóð Þorsteinn
Víkingssonur
nær tíræður
tiggja vinur.

Sá hafði öðlingi
æfi langa
fylgdir veitt
og fóstbræðralag;
var rekks enni
rúna steini
greyptum glíkt
und grám hærum.

Stóðu þeir heiðnum
hofum líkir,
tveimur hálfhrundum
á hömrum uppi;

en vitur rún
á veggjum unir
og helgar minjar
und hofs rjáfri.

»Rökkvar í heimi«,
ræsir mælti,
»deyfist oss mjöður,
drúpum und hjálmi;
myrkast mannheimar
móðu feigðar;
birtast goðheimar
glæstari' enn fyrr.

Mína vil eg kalla
megi báða
og son þinn, Þorsteinn!
saman þeir eiga;
vildi eg úngum
vargfæðendum
dýr ráð kenna,
áður dæi túnga«. —

Inn gengu í höllu,
sem hildingur bauð,
fríðir hróðmegir
og fremstur Helgi,
svartur sýnum,
seiði vanur;
kom frá blótstalli
með blóðgar hendur.

Næstur gekk Hálfdán,
hárprúður sveinn,
bjartur, grannlegur
bragnings kundur,
girtur laufa
sem til leiks gjörvum;
var sem mær stæði
und manns gervi.

Þá kom Friðþjófur
í felldi bláum,
höfði hærri
hlýrum báðum;
stóð hann í miðið,
sem á storðu dagur
kveld frá mærum
morgni skilur.

Hóf mál hilmir:
»hlýðið, synir!
því að lífssól vor
að legi skundar;
takið nú við ríki
og ríkjum stýrið
í bróðerni,
sem bræðrum samir.

Skal eindrægni
orku styðja,
sem stálhjöltu,
hvassan mæki.

Látið styrk standa
við storðar gættir,
en frið frævast
fyrir innan.

Því til hlífðar
er hjör of laginn,
nje til meingerðar
mannasonum;
svo skal og skyggður
skjöldur vera
hengilás fyrir
hlöðum manna.

Heimskur maður þjáir
þegna sína;
skortir þrek þengil,
nema þjóð styðji;
sjáið, hve sælleg
á svölum mörkum
fellur blómkróna,
ef fúnar stofn.

Hangir heimur allur
á hjörum fjórum,
en stillir við styðst
stólpa laga;
vitið, að ofríki
er óhamingja,
en rjettvísi
er ríkisheill.

Heiðin goð, Helgi!
megu' ei hof rúma,
sem liggi snígill
í luktri skel:
byggja goð víðar
enn bragnar hyggja,
leiptrar ljós
og lýðir mæla.

Bregðast opt seiðspár
af blótfálka
og ráðrúnar
á ristu kefli;
aðrar reit rúnar
ragna faðir
á hjörtu holl og traust,
er hvergi bregðast.

Stilltur vertu, Helgi!
nje stirðráður;
bítur opt hjör,
þótt í hendi svigni.
Buðlung samir mildi
sem blómstur skildi;
frjórri' er vorblíða
vetrarkulda.

Svo er vinarlaus,
þótt víglegur sje,
sem björk barrlaus
á beru rjóðri;

en eflist vinsæll
sem eik í lundi
vatni vökvuð,
varin kólgu.

Stær þig ei af kynsæld,
ef kosti skortir;
sá á álm,
er upp fær dregið;
hvað skal hróður öðrum,
sem í haug er laginn?
röst vill ein ráða
rás um ægi.

Glaðværð samir, Hálfdán!
gumum spökum;
nje siklingum
samir barnsglingur;
humall skal til mjaðar
með hunangi;
legg þú stál í egg
og alvöru í gaman.

Ofviti' er enginn,
þótt sje allspakur,
en örvita
opt má finna;
hlegið er að heimskum,
þótt hátt sitji,
en sæmd fær spakur,
þótt sitji yztur.

Greiður er vegur, Hálfdán!
til góðvinar
og fljótfarinn,
þótt fjarri byggi;
en til óvinar
eru jafnan,
þótt við braut búi,
brattar leiðir.

Trúðu eigi öllum
til einkamála;
auð hús eru opin,
en auðug hvergi;
leitaðu' eins vinar,
er-a þörf fleiri;
þjóð veit, Hálfdán!
ef þrír vitu«.

Þá kvað það Þorsteinn:
»þengill Beli!
einn skyldir þú eigi
til Óðins fara;
æ hafa saman örlög
okkar fallið;
skammt get eg enn verði
okkar milli.

Heyr þú, Friðþjófur!
holl ráð föður;
löng er mjer æfi,
lærðu mig nornir;

setjast Óðins-haukar
á ættarhauga,
en orð spök
á öldungs tungu.

Goð skaltu blóta,
því að gott og illt,
sem regn og skin,
regin veita;
goð kanna hjörtu
og hugi manna;
bæta opt löng ár
brot stundar.

Unn þú konungi;
einn skal drottna;
dagur á eitt auga,
en ótal gríma.
Þótt annar beztur sje,
má betri una;
eggjar er hjörs vant,
en einnig fetils.

Enginn skal, Friðþjófur!
afli treysta;
stoðar-at vaskleikur,
nema vit fylgi;
tólf manna afl á björninn,
þótt fyr einum falli;
oddum ver skjöldur,
en ofríki lög.

Hatast menn við ofmetnað,
þótt af ótti standi;
fylgja opt ófarir
ofurkappi;
þanns hreykinn drambaði,
sá og við hækjur styðjast;
ári veldur veður,
og vindar auðnu.

Lofa þú dag fyrst,
er deyr í vestri,
ráð, er fylgt hefir,
full, þá drukkið er;
optlega er ungur
óvarfærinn;
í rómu sverð reynist,
en í raun vinur.

Treyst eigi vorsnjó
nje veikum ísi,
svæfðum ormi,
svanna knjesettum,
hjörtu voru konum
við hjól sorfin,
og brigð í blómfögur
brjóst þeim lagin.

Deyja skaltu' úr heimi,
sem hvatki annað;
en eitt er, Friðþjófur!
sem aldrei deyr;

það er orðstír þinn,
því æ um stunda
rjett að rækja,
ráð að vanda».

Svo kváðu aldnir
í öðlings sal,
sem hermt er síðar
í Hávamálum;
aldir numdu að öldum
in ítru ráð;
óma þau enn þungt
um öðlinga kuml.

Mæltu margt síðan
mæringar aldnir
um vináttu þeirra
virðum fræga,
hversu geymt höfðu
í gleði' og raunum,
sem hönd hendi læst,
hver þeirra annars.

»Bak ljetum við, synir!
baki hlúa,
gjörðum skjaldborg
mót skeytum norna;
vænt er nú öldnum
til Óðins hverfa;
en giptu okkar
gefum við yður.

Haldizt æ í hendur,
hlýrar allir!
þá mun enginn einn
af yður bera;
vitið, að hilmis tign,
er hreystin styður,
er sem gullskjöldur
greyptur járnum«.

»Kveðju vora færið
fylkis dóttur;
hefur sú rós notið
ró og næðis;
friðið lilju þá,
og látið eigi
hjálm sinn Hræsvelg
henni skreyta.

Annast skaltu, Helgi!
Ingibjörgu,
og fyrirhyggju
föður veita;
harka stælir hoskan,
en hógværð mýkir;
gæt þess vel, Helgi!
en gleymdu eigi.

Leggið oss í hauga
hvoru megin
fjarðarins andspænis
við unnir bláar;

gleðja mun framgengna
fólknárunga
drafnar dynjandi
drápu hlýða.

Hlægja mun oss, Þorsteinn!
á haugum sitja
og svörum sendast
of svalan ægi,
þá er grund græna
gyllir máni
og bládögg brosir
á bautasteinum.

Svo sem úrsvalar
ár til sævar
fýsir fóstbræður
að finna æsi.
Farið því heilir,
og hjeðan skundið;
fylgi Þór yður
og Freyr og Óðinn.

## III.

## Friðþjófur tekur við arfi eptir föður sinn.

Heygður svo hildingur var, en hins vegar fjarðarins Þorsteinn;
lýðfrægir lofðungar svo í lífinu mælt höfðu fyrir.
Hrönn skildi hauganna kuml sem helstraumur fóstbræðra hjörtu.
Helgi og Hálfdán að erfð nú hlutu með úrskurði þjóðar
fjárhlut og forræði lands; en Friðþjófur einn saman tók við
friðsælum föður síns auð; á Framnesi tók hann við búi.
Mörg þarmeð hlunnindi hlaut og heimaland þrjár mílur fullar
umhverfis; hæðir og holt og haglendi þrem megin voru;
einmegin horfði við haf; en hálsana barrviðarskógar
skreyttu og hljesæla hlíð hin hávaxna kornstangamóða;
spegluðust hæðir og holt í heiðbjörtum tjörnum og vötnum
og skóganna skuggsælu göng, þars skálmuðu hornstórir elgir
drambandi dimmviði í og drukku af táhreinum lindum.
Ofar í iðgrænum dal þar undu sjer sællegar hjarðir
bjúghyrndra kúa á beit með búsælleg stálmafull júgur.
Sem haustþoka hálopti í sjer hríslar með ljósgráum rákum,
kvísluðu um hæðir og hlíð sjer hópar af mjallhvítum sauðum.

Herfákar tveim sinnum tólf að tölu, sem fjötraðir vindar,
stóðu við troðfylltan stall og stríðefldir gneggjuðu af fjöri;
gljáði' á in glórauðu föx, en gall við í járnvörðum hófum.
Skálinn var einhýsi eitt og allur af kjarnfuru reistur;
fleiri enn fimm hundruð stór með Friðþjófi drengja þar máttu
drekka inn munntama mjöð, er mæringur jólaboð hafði.
Inn gekk nm endlangan sal eitt eikarborð mikið og fágað;
innst þar við öndvegið stóð, en æsir tveir súlurnar voru.
Ógnþrunginn Óðinn þar stóð, en ársæll með röðul á hjálmi
hins vegar horfði við Freyr; þar hafði ei alls fyrir löngu
bragningur bjarnhjeðni á (en biksvört var húðin með skoltum
grimmum, er glóðrauðir hátt sig glenntu, en klærnar úr silfri),
sem gestrisnin gleðinni hjá, með góðvinum Þorsteinn átt sæti.
Margsinnis mæringur þar, á meðan að tungl óð í skýjum,
skemmta vann sitjandi sjöt með sögum og kynlegum undrum
Bjarmalandsferð sinni frá og Balagarðssíðu og Gandvík.
Hljóð sat þá hlýðandi drótt og hlustir við ræðu hans lögðu
býfluga líkt sem við blóm, og Bragi þar inn kominn greppum
sýndist með silfurhvítt skegg og sagnfáðar rúnir á tungu
Mímis frá lífsælli lind, en lifandi speki' er hann sjálfur.
Eldur á arninum brann þar ávallt á hálmstráðu gólfi;
rúmgóðu salsrjáfri á um reykháfa niður í skálann
blíðvinir blásölum frá brosandi horfðu inn, stjörnur.
Hjálmar og brynjur í höll þar hengu í röðum á veggjum,

styrjar skrúð, stálgöddum á, en stundum bar leiptur af hjörvi
sem stjörnuhrap haustkveldum á, en hjálmum og gunnlogum bjartar
skinu þó skildir í sal svo skærír sem sól eða máni;
svo þegar mær skenkti mjöð og mæringum dýrshornin rjetti,
roðnaði ristill, en skjótt þá roðnaði líka á skildi
hins vegar mynd snótar hýr; það höfðu opt sveinar að gamni.

Skorti þar föng ei nje fje, því fylltir af gnægtum og auði
kjallarar, kornhlöður, búr og kistur og geymsluhús voru.
Gripir og gersima fjöld úr gulli og smíðuðu silfri
var þar og vandlega geymt, í víking með herskildi fengið.
Þó voru kjörgripir þrír, er þóttu þar gersima beztir.

Fremstur var hríðstæltur hjör, er höfðu þeir langfeðgar borið,
ógnþrungið eldþrumujóð, sem Angurvaðill var nefndur,
austur í Ásheimi gjör, svo ætluðu flestir, af dvergum.
Björn átti blátönn hann fyrst, en Björn missti lífið og skjóma
suður við Græningjasund, er sótti hann Vífill inn sterki.
Vífils son Víkingur hjet, og verður nú fleiri að geta.
Öðlingur afgamall bjó á Úllarakri þær mundir;
dáfríða dóttur hann á, er döglingur hugástum unni.
Hilmir þann heimsóttan ljet einn hamrammur kafloðinn jötunn,
er miklu var tröllslegri enn menn, úr myrkviði stökk hann til byggða,
skoraði hilmi á hólm eða' heimti sjer land hans og dóttur.

Þó var sá enginn með þjóð, er þyrði að berjast við tröllið;
jötuninn bitu ei járn og Járnhaus hann fyrir því nefndist.
Víkingur varð til þess einn, þá vetra hann taldi sig fimmtán;
efldur á aræði sitt og Angurvaðil hann treysti:
Járnhaus í herðar hann hjó í höggi og leysti svo meyna.
Þareptir Þorsteinn fjekk dör, en Þorstein nam Frið-
þjófur erfa.
Logaði eldur úr egg, er ógnþunnum brugðið var hjörvi;
hjölt voru gullspöngum greypt, en gjörninga-rúnir á brandi
kynlegar kenndi ei neinn, en kenndar þær voru við sólar-
gættir, þars áanna ætt með ásum í fyrndinni bjuggu.
Fölvir á friðsælli tíð þeir feiknstafir leyndu sjer jafnan,
en þegar hvattur var her í hildarleik, jafnan þeir brunnu,
dreyrgir sem hárauður haus á hana, er stendur að vígi.
Hver, sem um hjörþrymunótt þeim helrúnum mætti, lá
fallinn.
Frægur sá fjörsvafnir var og fremstur um Norðurlönd talinn.

Armbringur ágætur var þar annar af kjörgripum beztur;
Völundur smíða hann vann (er Vúlkanus Suðurlönd nefna).
Þrjár merkur vegnar hann vó af vandlega hreinsuðu gulli.
Sali þar sigtíva tólf menn sáu á bauginum greypta,
breytileg mánaðamörk, í mannheimi sólarhús kölluð.
Álfheima fyrst, þar sem Freyr á fagran sjer bústað, og
sunna
hefur upp blikandi braut, er byrjar að hækka að jólum.
Sökkvabekk sáu menn og, með Sögu þars Alfaðir drekkur
gljáanda gullhorni af; það gullhorn er sólroðinn ægir
vonhýrum vormorgni á, en vorið er blómfögur Saga,
rituð í rúnanna stað með rósum á daggfrjóvu engi.
Baldur sat öndvegi í, sem eygló um hásumardaga

gjöful á gullfagran auð og gæzkunnar lifandi ímynd,
því gæzkan er leiptrandi ljós, en lygin og illskan er
myrkur.
Lýist á loptferli sól og líka fær stundum ið góða
svima á hrynjandi hæð, og hnígur þá hvorttveggja dapurt
niður í bölheima'; á bál er Baldur inn góði þá lagður.
Glitni, inn sátthelga sal, menn sáu; með vogir í hendi
fríður þar Forseti býr og friðsæll á haustþingum dæmir.
Mörg var þar enn fögur mynd, er máluðu baráttu stranga
ljóssins á loptvegabraut og ljóssins í mannanna hjörtum,
gjört allt af meistarans mund, en miðjan sem kórónu
skreytti
baughringinn blóðrauður steinn, sem brosi úr hálopti
sunna.
Arfgengan átt höfðu hring þeir áttungar, langafar Friðþjófs
í móður ætt, vegleg sem var frá Völundi þjóðhaga komin.
Hringurinn hvarf þó eitt sinn, er hafði þar víkingur komið
sóknrammur, Sóti er hjet, og síðan fannst bauguriun hvergi.
Loks kom upp saga með sjöt, að Sóti á Bretlandi vestur
hefði sig kvikan í haug með herfangi' og langskipi grafið,
en dólgur lá dauður ei kyrr og draugur varð rammur og
illur.
Bjó sig þá Þorsteinn á braut með Bela á drekanum góða;
fullvel þeim greiddist sú för of freyðandi, mjallhvítar unnir,
fundu loks háreistan haug sem höll eða musteri gjörvan
úr grjóti og torfi, og glöggt um glugga einn lítinn þeir sáu,
víkingaskipið hvar var, sem vandlegast búið að reiða.
Litu þeir lyptingu í, hvar ljósgráum eldstakki búinn
draugurinn dólgslegur sat og dreyrstokkinn gunnþvara fáði;
skyggðist þó að heldur ei; en umhverfis ránsfé í dyngjum
glóði og gersima fjöld, en gullhringinn bar hann á hendi.

»Bezt mun«, kvað Beli þá hljótt, »að báðir við göngum
í hauginn
og eigum við eldsvofu leik«, en aptur þá svaraði Þorsteinn:
»Einn móti einum er lög, og einn skal eg ráðast á fjanda«.
Deildu þeir drjúgum um hríð, hver dólginn á fyrr skyldi
ráða.
Loksins tók hilmir upp hjálm og hlutum í varpaði tveimur.
Hlutur kom Þorsteins upp þá, og þekktist á stjarnbjartri
nóttu;
hratt hann með spjóti upp hurð á haugnum og rjeð
síðan niður.
Hver sá, er frjetti, hvað hann í helmyrkvum bar fyrir ranni,
fölur við feiknstafi þá ei frekar um slíkt myndi spyrja.
Fyrst heyra ræsir vann raul, sem rymdi við forneskjuþula;
þá heyrðist glymjandi gnýr sem gyllu við stálhertir brandar;
þá fylgdi ódæma-org, en eptir það steinshljóð, og Þor-
steinn
bleikur og trylltur út brauzt, því barizt hann hafði við
dauðann.
Hringinn á hendi bar þó. »Sá hringur er dýrkeyptur
orðinn,
því aldrigi fyrri á fold eg fölnaði af ótta«, hann mælti.
Draupnir var dýrgripa val og dýrstur um Norðurlönd talinn.

Drekinn var Elliði enn, er áttan þeir langfeðgar höfðu.
Seginn það atburður er, að eitt sinn er Víkingur sigldi
heimleiðis hernaði úr, nær hauðri því, sjálfur er byggði,
sá hann, hvar fleki einn flaut um fjörðinn og mann þar
á standa.
Garplegur gumi sá var og glaðlegur sýndist og ugglaus,
ljettur og ljúfur á svip, sem leiki sjer alda við sólskin;

bláleita skikkju hann bar og belti með sæliljum gullnum;
breiddist um bringu hans skegg sem brimfroða', en hárið
var sægrænt.
Víkingur brá þá við brátt og bjargaði nauðstöddum manni,
tók hann úr hafsvolki heim og hjúkraði, vermdi og saddi;
en gistingu gesti þá bauð, hann glotti og svaraði bónda:
»Heim mun eg halda í kveld, þótt hundrað sje vegur-
inn rastir;
víst er þitt vinsamlegt boð, og vel ferst þjer; gjarnan
eg skyldi
gefa til minja þjer gjöf, en góz mitt er fólgið í sænum;
má vera, að morgni við strönd þú minjagrip sjáir þó
lítinn«.
Að morgni stóð höldur við hlje og halda sá inn eptir firði
dreka með gapanda gin sem gamm meður stormeflda vængi.
Enginn sást maður þar á, og enginn við stjórn sat á fleyi;
liðugt það leiðina smó um löðrandi grunnskerja boða,
andar sem á væri gnoð, en óðar enn bar það að landi,
sjálfkrafa sviptu sig segl og sökktu sjer akker til grunna.
Forviða Víkingur varð, en vogurinn gall við og mælti:
»Ægir, sem bjargir þú bauðst, að bjarglaunum sendir
þjer drekann«.
Forkunnar fögur var gjöf, ei felld voru saman að vanda
eikiborð undin i skeið, því öll voru samskeyti gróin;
leit út sem dreki á lög, og langt upp úr framstafni teygðist
höfuð með grimmúðugt gin og gullbúinn allur var svírinn.
Borð voru blásteind á gnoð; úr bakstafni hringlaginn
sporður
silfurhreistraður sást af svalkaldar unnir sjer lypta;
blökk voru seglin og brydd með blóðrauðu; þanda með
vængi

flugdrekinn flaug á við storm, en fálkinn varð drjúgum á eptir.
Þar sem lá ferðbúið fley og fullskipað vígsnörum drengjum,
var sem að víkingaborg eða vísahöll flyti á sænum.
Drekinn var dýrgripa val og dýrstur um Norðurlönd talinn.

Gripina Friðþjófur fjekk í föðurarf; ódæma-mikil
auk þess hann auðæfi hlaut, svo auðsælli maður fannst hvergi,
buðlungi' ef borinn ei var, því buðlungaríkið er dýrast.
Konungsson kappinn var ei, en konungur var hann að skapi,
vitur og vinsæll og örr, svo víða hans ágæti spurðist.
Fylgdu' honum fullhugar tólf, er fylgt höfðu Þorsteini lengi,
gráir með eggbitin ör, í orustum reyndir að hreysti.
Yztur á öndvegisbekk með öldruðum gráserkjum byggði
fríður og fráneygur sveinn, sem fífill hjá skrælnuðu laufi.
Fullhuginn frækni hjet Björn og Friðþjófi jafn var að aldri,
rjóður sem barn, en í raun roskinn, og gamall að forsjá.
Upp hann með Friðþjófi ólst, í æsku þeir vöktu sjer dreyra,
festandi fóstbræðralag, sem frægur er Norðmanna siður.
Eitt skyldi yfir þá tvo í yndi og hörmungum ganga;
hver þeirra hefna' annars hjet og hver annan verja til dauðans.
Búið var erfi með öld, og alskipuð gestum var höllin.
Á miðjum bekk Friðþjófur frækn síns föður með tárugu auga
minntist að mæringasið, og málsnjallra hlýddi á greppa

dynjandi dróttkveðin stef, er drápu þeir fluttu' eptir Þorstein;
síðan í föður síns sess hann settist að lögum á milli
Óðins og Ársældar-goðs, sem Asaþór situr í Valhöll.

---

## IV.
## Friðþjófur biður Ingibjargar.

Nú glymur bragur í bjartri höll
og bragning lofa skáldin snjöll,
en frækinn gleður
ei Friðþjóf drápan, er skáldið kveður.

Og vorið kemur og grænkar grund;
nú geysa drekar um fjörð og sund;
en mæring ungur
um markir reikar svo hyggjuþungur.

Því skammt var liðið frá ljúfri stund,
er lofðung Hálfdán hans sótti fund,
og Helgi bistur;
þeir höfðu með sjer dáfríða systur.

Við hlið hans sat aðra hýrleit snót,
og hendur þau tengdu með ástarhót;
á svanna skærar
hann sjónir starði, svo munarkærar.

Af hljóði þau minntust á horfna stund,
er hló við þeim bernskunnar vorsæla grund,
og marga mundu
þau munarrós, frá því er saman undu.

Hún bar honum kveðju frá björk og dal,
og barkmerktum stofni', er nafn þeirra fal,
og bautasteinum,
þars bjarkir vaxa' yfir mæringabeinum.

»Við hirðina búa eg bót litla finn;
sem barn lízt mjer Hálfdán, en grimmur er hinn,
þeir öðlingar vænir
um annað ei hirða enn lofgjörð og bænir.

Við hirð þá er enginn, sem harm segi' eg minn
(hún hljóðlega mælti, en roðnaði kinn);
í konungasölum
er kaldara miklu, enn Hildings dölum.

Og dúfurnar, áður sem undu sjer þar,
þær allar á burtu rak haukurinn snar;
tvær saman sitja
í sorgum þar enn; eg læt aðra þín vitja.

Því dúfan mun fljúga til fundar við vin,
og fornvinar sakna, ef eptir er hin;
í væng kveðju vefðu
og vinkonu málrúnir fáeinar gefðu«.

Svo ræddu þau dag þann og hjöluðu hljótt
og hvískruðu drjúgum, unz leið fram að nótt,
sem hljóðskraf hjali
inn hlýi vorblær um laufga dali.

En horfið er burtu ið fríða fljóð,

og Friðþjófur tregar; ið unga blóð
til vilja segir;
af von og af kvíða hann stynur og þegir.

Og sorgarrúnir hann sendi snót
með svásri dúfu, er beið ei hót,
en ei tilbaka
í annað sinn kom hún frá þýðum maka.

»Hví er svo hnípinn inn ungi örn?«
með undran stórri svo mælti Björn,
»er bringan brotin?
er beittum fleini vængurinn skotinn?

Hvað girnist þú? er hjer ei gæði stór
af góðu fleski og sterkum bjór,
og skáldaskvaldur,
er skemmta má oss um langan aldur?

Og reiðskjótann fýsir að fljúga yfir láð
og farið er haukinn að langa í bráð,
en Friðþjófur reikar
um foldu hljóður með kinnar bleikar.

Og Elliði hefur ei yndi nje ró,
og akkerisstrengjum vill rykkja úr sjó;
þú fleyið fríða!
hann Friðþjófur vill nú ei lengur stríða.

En áður enn heima eg andast úr sótt,
sem Óðinn eg geiri mig risti skjótt,

og efa eigi,
að Hildur oss fagni á heljarvegi«.

Friðþjófur bjóst þá og skundar á skeið,
og skjótur siglir hann beina leið
of fjörðinn þveran;
þá Belasyni að finna fer hann.

Við Belahaug hitti' hann bræður og þjóð,
með bændum þar mæltu þeir lögskil góð;
en Friðþjófur ræðir,
svo duna við röddu hans dalir og hæðir.

»Þið konungar! sjáið, eg kominn er hjer,
og kóngsdóttur bið eg til handa mjer;
því synja ráði
vart mundi Beli, ef væri' hann á láði.

Við tvö saman fæddumst upp Hildingi hjá,
sem hríslur á rót einni vorum við þá,
en yfir síðan
toppana Freyja batt tryggðavef blíðan.

Minn faðir ei jöfurs nje jarls bar nafn,
en jafnan hann lofa mun kvæðanna safn;
hans afreksverkin
vitna nú rúnir og vegsummerkin.

Þótt vinna eg treysti mjer veldi og lönd,
eg vera kýs heldur á feðranna strönd,

og þess vil eg sverja
svo konungborinn sem kotung verja.

Og Beli í hauginum heyra má
á hvert vort orð; með Friðþjófi sá
nú bræður biður:
gætið þjer vel þess, er gegnir yður!«

En Helgi þá svarar og styggur upp stóð:
»ei stoðar að mægjast við kotungablóð,
nje bónda slíkum
eg gef þá, er samir bezt gylfa ríkum.

Þú vinna mátt ríki og fjár afla frjáls,
þú fífla mátt konur og stýfa hvern háls,
en ofurkappi
in ásborna verður ei þínu að happi.

Til landvarnar ríkinu ei þörf er á þjer;
eg það annast sjálfur, en viljir þú mjer
fylgja, þig fel eg
húskörlum vorum og sess með þeim sel eg«.

»Það seint hygg eg verði«, þá svaraði hinn,
»því sjálfræði ann eg, sem faðir minn.
Að öðling reiðum
þjer, Angurvaðill! nú bregð úr skeiðum«.

Þá geislaði sólin á gullbúinn hjör,
svo glóandi blika við rúnir á dör;

»á Angurvaðli
má sjá«, kvað hetjan, »að hann er af aðli.

Og væri ei haugurinn helgaður frið,
þú hilmir inn svarti! ei fá mundir grið;
þó skaltu eigi
í annað sinn brandi þeim verða á vegi«.

Og Helga skjöld gylltan, er hjekk þar á meið,
í helminga tvo hann með sverðinu sneið;
sundraðist baugur,
en buldi við háreistur Belahaugur.

»Vel tókst þjer, hjör minn! til hvíldar þig legg,
og hylji sig friðböndum rúnir og egg;
heim skal nú halda
og drekanum beita of djúpið kalda«.

---

## V.

# Hringur konungur.

—

Og Hringur hratt borðum og hoskur upp stóð,
en hirð með skvaldur
þá reis upp og veitti ræsi hljóð;
með rjettu þjóð
þeim milding líkti við Mími og Baldur.

Hans ríki var goða líkast lund,
í ljósum viði,
þars vopn ei glymja við vigrafund,
en vorsæl grund
mót sólu glóir í síblíðum friði.

Og dómgyðjan ein var með drottni og þjóð
um dæmistólinn,
og friðurinn skattaði frjósama slóð;
sem fræningsglóð
ljómuðu akrar, er lýsti þá sólin.

Og hundruðum saman in hlýroðnu flaust
með háum faldi
úr siglingum komu hvert sumar og haust
of sílanaust
með auðkeyptu auðlegðarvaldi.

Og friðurinn dafnaði frelsinu hjá;
þau fýsti ei skilja;
og þjóð sína elskaði þengill sá,
og þingum á
með einurð hver innti sinn vilja.

Hafði nú þrjátigi vetra við völd
sá vísi setið,
svo hrygg af hans fundi gekk aldrigi öld,
og æ hvert kvöld
í bænum þess bragnings var getið.

Og Hringur hratt borðum og hoskur upp stóð,
en hirð að bragði
stórvitrum veitti stilli hljóð;
hann stundi af móð
og málsnjallur mál hóf og sagði:

»Vor drottning situr í Fólkvang fríð
við fagurt yndi,
en hjer á hún leiði, þars blómin blíð
og bládögg þýð
tindra við ljóstærar lindir.

Ei veitist oss önnur svo væn og rjóð,
vors veldis hróður;
í Valhöll er hún og gjöld fær góð,
en gjörvöll þjóð
með börnunum biðja um móður.

Oss Beli sjóli nam sækja' opt heim

um sumarstundu,
og borin er svanni buðlungi þeim;
ei betri um heim
eg silki- veit svanhvíta -hrundu.

Ung er sú víst, og yngismær
kýs ung blóm plokka,
eg visið er lauf, og vetrarsnær
sjer víða slær
um lofðungs fölnaða lokka.

En vilji hún Hringi hýru ljá,
þanns hærur skreyta,
og vilji in bjarta um börn vor smá
með blíðu sjá,
þá mun hástól sinn haust sumri veita.

Og veljið nú skraut fyrir skjöldungs jóð
úr skríni eikar,
og fylgið þjer, skáld vor! og flytjið óð,
því fögur ljóð
við bónorð sama og brúðarleika«.

Og garpar fóru í glæstri þröng
með gjafir dýrar,
og skáldanna fylking var furðulöng;
við fagran söng
þeir komu í sal, þars sátu hlýrar.

Þeir drukku með bræðrum í daga þrjá
við dýrð og teiti,

og erindum síðan þeir sögðu frá,
og sjóla þá
þeir frjetta, hver andsvör ferðbúnum veiti.

Helgi þá blóta vann hauki og mar
í helgum lundi,
og blótmenn og völur buðlung snar
nú bað um svar,
hve svanfríðu samdi ráð sprundi.

Og vilin gáfu vilspár ei
nje völva heldur,
og Helgi sendi Hringi nei
um hýra mey;
grimm eru rök þau, er goðþjóð veldur.

En Hálfdán mælti og hló um leið:
»það helzt er skaði;
að gleðinni spilltu goðin reið
við grimman seið;
svo styðjum þá Hring karl úr hlaði!«.

Heimleiðis sendimenn hraða ótt
og hraksvör inna,
en gamall þengill við göfga drótt
þá greinir skjótt:
»inn gamli mun hefna harma sinna«.

Og Hringur jöfur á herskjöld sló,
er hjekk á meiði;
með dreyrug gin þá drjúgum fló

hver dreki á sjó,
og hjálmarnir lýstu mót heiði.

Þá Helga sveitin sögu þá ber,
hann svarar bistur:
»oss tjón er búið, því hraustur her
með Hringi fer;
í Baldurshof setjum vjer systur«.

Býr nú í friðsælu hofi við harm
in hýra lilja,
og guðvef saumar, en gljúpan hvarm
og glæstan barm
hrellir nú harmskúra kylja.

---

VI.

## Friðþjófur situr að tafli.

—

Friðþjófur við taflborð tefldi
tafl með Birni; hrannareldi
annarhvor var reitur roðinn,
ríku silfri glóði hinn.

Hildingur í höll þá gengur;
honum fagnar prúður drengur:
»Drekktu, fóstri! mjöðinn mæra,
meðan varir leikurinn!«

»Synir Bela, sjólar vænir,
sendu mig til þín með bænir;
vandræðin nú óðum aukast;
allir vænta liðs af þjer«. —

Bragning svarar: »Björn! þín gættu,
buðlung er í stórri hættu,
bóndi honum björg má veita,
bóndinn jafnan skotspónn er«.—

»Ekki skaltu erta grami,
arnarniðjar gjörast ramir;
þótt þeir Hringi minna megni,
meiri bræður eru þjer«. —

»Björn! í hættu hrók þú setur,
honum fylgja skal eg betur;
inn í skjaldborg hann skal hopa;
hættulaust þar vígið er«.—

»Ingibjörg í Baldurshaga
beiskan grætur alla daga;
getur þig ei ginnt til víga
grátin mær með augun blá?« —

»Drottning, Björn! þú bugar eigi,
brúði þá frá æskudegi
þekki' eg; hún er bezt á borði,
bjarga þeirri víst eg má«. —

»Skal eg jafnnær frá þjer fara,
Friðþjófur! þú vilt ei svara,
situr kyrr og leik við lýkur,
lætur óbænheyrðau mig?« —

Hetjan upp þá stóð að stundu,
stilltur tók í fóstra mundu:
»eg hef þegar svinnum svörum
sæmdan, kæri faðir! þig.

Belasonum svör þau tjáðu:
saklausan mig gylfar smáðu;
við þá kýs eg ekki eiga;
aldrei skipa' eg þeirra bekk«. —

»Þig skal ekki þar um saka,
þú munt sjálfur ráð þjer taka;
Óðinn bið eg öllu ráða«,
aldinn kvað, og brautu gekk. —

---

VII.

## Unaðarstund Friðþjófs.

»Þeir bræður sveitir saman draga
og sveima' um storð að biðja' um lið;
en eg í blíðum Baldurshaga
mjer bústað á og vopnasvið,
og gleymi sennu sjóla snjallra
og sorg og gleði' um foldarhring;
þá drekk eg munað Ása allra
með Ingibjörgu tvímenning.

Á meðan rósum röðull treinir
ið reginmæra himinskraut,
sem líkja má við logareinir,
er leiptra um fagurt meyjarskaut,
á meðan kyrr eg stend á ströndum
og stúrinn bíð með heita þrá,
og meyjarnafn á svölum söndum
með sverði rita til og frá.

Hve seinlát er in sæla stundin?
þú sólargoð! hví dvelur þú,
sem sjeð ei hefðir svása lundinn
og sund og eyjar fyrr enn nú?
Er hvergi mær í Vesturvegi,
sem væntir bráðlynd eptir þjer,

að blíða ást þèr birta megi,
og brjóst þitt upp við halla sjer?

Í Ránar-faðm þú loksins líður,
og leiptri sveipar himinvæng,
og festir rósablæjur blíður
að bjartra goða værri sæng;
um ástir kveður aptangjóla,
um ástir lindin hjala fer,
og fornlynd goðafóstran, njóla,
með flogagulli skautar sjer.

Svo hægt fram stjörnur ljósar líða,
sem læðist sveinn á meyjar fund,
of voginn skundar fleyið fríða,
en fylgdu' á eptir græðis sprund!
í mót oss glóir goðalundur,
og goðaheill oss hvergi dvín;
í Baldurshofi feginsfundur
með Freyju sjálfri bíður mín.

Hve feginn stíg eg fæti á hauður —
ó, fold! eg gjarna kyssti þig,
og blóm, er faldið fagurrauðu
og fannahvítu grundarstig!
þú máni, sem í geislaglaumi
nú gyllir hof og lund og bý!
þú brosir eins í blíðum draumi.
og brúðarhúsi Saga í.

Hver hefur ljúfri lind, sem talar

við liljur, kennt minn hjartans óð?
og yður, Noregs næturgalar!
mín næmu' og heitu munarljóð?
Með leiptrum ásýnd Ingibjargar
oss álfar mynda um himindúk,
en dýrri mynd hún Freyja fargar
og feykir brautu öfundssjúk.

En lítt eg ímynd svanna sinni;
hún sjálf er hjer, sem vonin fríð,
og trú sem barnsins trygga minni
hún til mín skundar ástarblíð:
kom, bjarta mær! að brjósti mínu,
mitt blíða yndi og munarþrá!
í faðm mjer halla höfði þínu,
með hýru augun, djúp og blá.

Svo grönn ert þú sem lítil lilja,
svo litfríð eins og þroskuð rós,
í geði hrein lík guðavilja,
í geði hlý sem himinljós.
Ó, kyss mig, svo minn Lofnar-logi
sig læsi eins í gegn um þig;
mjer hverfur jörð og himinbogi,
þá, hjartans-mær! þú kyssir mig.

Ei hræðast þarftu hættu neina,
inn hrausti Björn við ströndu er
með hugarprúða' og hoska sveina,
sem hræðast myndu' ei ægan her.
Hve feginn vildi' eg, væna meyja!

þig verja' svona í faðmi mjer,
og, valkyrja ef værir, deyja;
til Valhallar þá fylgdi' eg þjer.

Hví hvískrar þú um Baldurs bræði?
ið blíða mun ei reiðast goð,
í augsýn hans þótt unnumst bæði,
því ást er hans ið milda boð;
inn bjarti ás með hyggju hlýrri
svo heitt sem við og munarblítt,
vann unna Nönnu áður hýrri
með ástargeðið varmt og þýtt.

Eg mynd hans sje, til mín hann lítur,
og milt er yfirlit og blítt;
að fórn hann nú mitt hjarta hlýtur
svo heitt og traust og ástarþýtt;
nú lotning goði ljósu veitum,
ei ljúfa'ra má hann þiggja blót,
þeim sömu tryggða svásum heitum,
er sjálfur forðum vann hann snót.

Þú mátt ei ástum mínum hafna,
úr mannheim eru' ei sprottnar þær;
úr goðheim kemur gleði sjafna,
og goðheim þráir, ljúfa mær!
Hve glöðu myndi' eg geði deyja,
og goða svífa' í himinlund,
í faðmi þínum, fríða meyja!
ef fegins væri komin stund.

Um silfurhlið þá herjar bruna
í hjörvaleik, við síðu þjer
eg helzt mun kjósa heima una,
sú himinsæla dýrust er;
þá goðaveigar, gyðjan þekka
í gullnum hornum byrlar drótt;
með einni þjer eg ætla' að drekka
og ástarblíðu hvískra hljótt.

Þar vil eg laufsal, brúður! byggja
á bjartri strönd við mararsund;
með skjóli þar oss skulum tryggja
í skuggasælum goðalund.
Þá blíðheims röðull rís um morgna
(ei röðli fegra neitt er þeim),
í Valhöll inn við förum forna,
en fúsari þó að kveldi heim.

Úr stjörnum skal eg sveig þjer, svanni!
um svása binda lokka-glóð,
og við þig danza' í Vingólfsranni,
svo verði kinn þín fagurrjóð,
unz þreytt við heim úr glaumi göngum
í goða heilög skuggatjöld,
þars meður blíðum brúðarsöngum
oss Bragi skemmtir sjerhvert kvöld.

Hve syngja þrestir sætt um lundinn! —
sá söngur kemur Valhöll frá;
hve fagurt máninn silfrar sundin! —
af sælli storð er ljómi sá;

þau ljóðin skær og bjarminn boða
oss betra lund og fegra hörg;
þá grund mjer þætti gaman skoða
á Gimli með þjer, Ingibjörg!

En hættu gráti — heitir straumar
í hjarta mínu svella enn,
og æðrazt ei, því ástadraumar
í æðra heim opt flytja menn;
en óðar faðm þú blíðan breiðir
og björtum augum sjer til mín;
inn hugum-stolna heim þú leiðir
úr himinsælu, snót! til þín.

»Til lævirkjans eg heyri'«, í húmi
svo hjúfrar dúfan blíð og trú,
en lævirkinn í lágu rúmi
með ljúfum maka sefur nú;
þau sælu hjón ei skilnað skilja,
en skemmta megu' í næði sjer,
og vera frjáls sem veðrakylja,
um víðan himin sem þau ber.

»Sjá, dagur rís«. Af fjöllum framan
þú fagran vita leiptra sjer;
við megum enn þá sitja saman,
in sæla nótt ei liðin er;
æ, sofðu dagsins dýra stjarna!
og dveldu enn þá langa stund;
til ragnakvelds þjer, Glóeyg! gjarna
eg gæfi leyfi' að festa blund.

En óskir heitar eigi stoða,
í austri fagur morgunn skín
með sama himinrósaroða,
sem reifir kinn á silkilín,
og þúsund raddir þrasta titra
og þylja morgunljóðin dýr;
nú lifnar allt og öldur glitra,
og unnustinn með skuggum flýr.

Nú rennur sunna rósum skærri;
ó, reiðst ei minni heimskubæn;
nú finn eg glöggt, að goð er nærri;
svo guðum-fríð er sólin væn;
hve sæll er hann, er svífa fengi
eins svása æfibraut og hún,
og ljós og sigur gegn um gengi
með gulli skráða frægðar-rún.

Þitt heilagt auga, sunna! sjer nú,
það svásast er á Norðurgrund;
og meyjar skjól og skjöldur ver þú,
því skærust ímynd þín er sprund;
þinn himinn býr í hennar auga,
svo hrein er mær sem geisli þinn;
þín gullhár hennar lokka lauga,
þitt leiptur skreytir hennar kinn.

Og far nú vel, mín brúður blíða!
og bíð mín sælli nætur-stund;
æ, far nú vel; á vangann fríða
og varir þiggðu kossa, sprund!

til svefns nú gakk og síðla vakna
og sárar vonarstundir tel,
og mín í vöku' og svefni sakna
með sömu þrá og eg. Far vel!«

---

VIII.

## Skilnaður Friðþjófs og Ingibjargar.

—

INGIBJÖRG:

»Það daga fer og Friðþjófu'r kemur eigi,
og fjölmennt þing í gærdag var þó haldið
á Belahaugi; bezt var slíkur staður
fallinn til að dæma á dóttur hans!
Hve ótal bænum vann eg eigi verja
og votum tárum til að þýða inn kalda
heiptarís um hjartarætur Friðþjófs,
að hann skyldi selja hönd til sátta!
Æ, hörð er karlmannshyggjan; einatt sakir
drengskaparins (svo þeir dramb sitt kalla)
þeir hirða eigi hót eitt, þótt þeir nísti
hjarta tryggt í einnar konu brjósti.
Konan er sem bleikur mosi' á bjargi,
sem bágt á með gróa fast við steininn,
og enginn tekur eptir slíkri jurt,
sem næring fær af næturinnar tárum.

Í gærdag leið minn dómsúrskurðar-dagur,
og dagsins auga huldist dimmri nóttu,
en Friðþjófur er fjarri; daufar stjörnur
heilsa og kveðja hver á eptir aðra;
með hverri þeirra hýrar vonar-stjörnur
í þessu brjósti ganga' um leið til grafar.

Og til hvers er að vona?—Goð í Valhöll
vilja' ei sinna mjer, sem hefi styggt þau.
Inn hvíti ás, í hofinu' er mín geymir,
mig hatast við, því ástir jarðarbarna
í augsýn goða eru ei nógu skírar,
og jarðnesk gleði og glys má eigi koma
í goðahof, þars undir hvelfdu rjáfri
í helgri kyrrð sjer himinbúinn unir.
En samt sem áður, sek er eg þó eigi,
og sakir hvers er ásinn góði reiður
ástum einnar meyjar? — Eru þær ei
skírar eins og Urðarbrunnur, eða
morgundraumar þeir, er Gefjon dreymir? —
Og sólin, sem er heilagt himins auga,
ei fælist heldur elskendur, sem unnast,
og dagsins ekkja, heiðbjört nóttin, heyrir
í harmi sínum gjarna eiða þeirra.
Má það, sem und berum himni er bjart,
í Baldurhofi verða ljótt og svart? —

Jeg elska Friðþjóf; æ svo langan tíma,
sem eg fæ munað, hef eg elskað Friðþjóf;
það ástarþel er jafngamalt og jeg;
nær það kom til, eg hvorki man nje hitt
eg hugsað get, að svo hafi' ei verið jafnan.
Sem aldinvöxtur vex um kjarna sinn
og verður stór og fagurgylltur knöttur
mót heitri sól á hlýjum sumardegi,
svo hef eg þroskast æ um þenna kjarna,
og þó er eðlisfar mitt að eins skurn hans.
Ó, reiðst ei, Baldur! því með bljúgu hjarta

eg kom til þín og kveðja skal þig líka.
Eg tryggðir mínar bera vil of Bifröst,
svo ást mín verði ásum kunn í Valhöll,
og goðborin með goðum skal hún búa,
og skoða sína mynd í skyggðum skjöldum,
á dúfuvængjum gegn um geima fljúga
og Gimil byggja þar, sem hún var áður
með Alföður — hví ýglist ásinn góði
og ásýnd hylur fyrir dagsins birtu? —
Í mínum æðum eins og þínum rennur
ásablóð; ó seg, hvað viltu, frændi!
ástum get eg eigi fórnað þjer
og eigi vil; þær sama' ei himni þínum,
en hamingju minni' í heimi get eg fórnað,
og frá mjer kastað, eins og drottning varpar
möttli sínum, og er þó sem áður
in sama fyrir það — eg svo vil gjöra;
og eigi skulu æsir þar í Valhöll
sig fyrirverða sakir frænku sinnar;
og því, sem kemur, kvíða skal eg eigi
sem kappinn. — Þarna koma sje eg Friðþjóf.
Hve trylltur, fölur! — Nú er öll von úti;
og illar fylgjur eru' í för með honnm.
Vertu hraust, mitt hjarta! — kæri vinur!
seint um síðir — velkominu oss vertu!
vor skapardómur skín á enni þínu;
eg sje það glöggt« —

FRIÐÞJÓFUR:

«En sjerðu þar ei líka
með dreyrgum rúnum sektir, heipt og háðung
og flótta' og útlegð? —

INGIBJÖRG:

»Friðþjófur! ó, gæt þín,
og seg, hvað orðið er; eg vænti' ins versta,
og viðbúin er tíðindin að heyra«.

FRIÐÞJÓFUR

»Eg kom á þing á kumli frænda þinna;
í kring um hauginn stóðu Noregs bændur
með sverð í höndum; skjöldur nam við skjöld
öllu megin, hringir yfir hringum,
að haugsins kolli, þar sem sat á steini
blótmaðurinn Helgi, bróðir þinn,
svartur, þrútinn líkt og þrumuský;
við öxl hans Hálfdán handljek fagurt sverð
hugum-glaður, líkur rosknu barni.
Þá hóf eg mál og mælti: »Styrjöld ærin
nú æpir heróp hátt á landamærum;
og ríkið, Helgi! er í háska miklum;
gipt mjer systur þína; þrótt og fullting
eg legg í mót, og má þjer lið að verða;
látum gamla óvild niður falla;
eg sættist fús við Ingibjargar bróður;
ver nú sanngjarn, sjáðu í einu borgið
sæti þínu og hjarta Ingibjargar;
eg sel þjer hönd og sver við Ása-Þór,
að sízta skipti býð eg þjer nú sættir«.
Þá varð gnýr á þingi; þúsund brandar
þrumdu á skjöldum hvellu fegins-ópi,
og vopnabrakið hóf sig hátt til skýja
og himinn gladdist frjálsra manna rómi:
»Friðþjófi giptist Ingibjörg in fagra,
sem fríðust lilja er í dölum vorum,

en hann er lands vors besti varnarbrandur,
fái hann hennar!« Fóstri okkar aldinn,
Hildingur með hærur silfurhvítar,
gekk þá fram og fagurlega mælti
í kjarnyrðum, sem kvæðu stæltir hjörvar,
og þá stóð Hálfdán upp úr hávu sæti,
og bað með orðum og með augnaráði,
en ekkert dugði, því að bænir allar
hurfu líkt og verkun sólarvarmans,
er vekja freistar líf úr dauðu grjóti,
og svipur Helga var sjer sjálfum líkur,
og svellköld neitan gall við heitum bænum:
»Einn bóndason«, hann sagði meður spotti,
»eg svara virti, en þessum goðgámanni
gef eg aldrei goðum-borna systur.
Hefurðu' ei, Þjófur! brotið helgi Baldurs,
og brúði sjeð um nótt í hofi goðsins?
og ljeztu' ei myrkrið munað ykkarn hylja?«
»Já eða nei?« þá æpti allur lýður.
»Seg nei, seg nei, vjer svari þínu trúum;
þú sonur Þorsteins, konungssona jafni!
seg nei, vjer fylgjum fast með þínu máli,
og þú skalt eiga Ingibjörgu fögru«.
»Örlög mín á einu orði ríða«,
þau andsvör gaf eg, »hræztu þó ei, Helgi!
því hvorki skal eg ljúga mjer út gleði
á jörð nje Valhöll; eg hef systur þína
sjeð og hjalað við í myrkvu hofi,
en helgi Baldurs hef eg aldrei svívirt«.
Eg fjekk ei meira mælt, því dimmur kurr
á þingi reis, og þeir, sem næst mjer stóðu,

sjer þokuðu' undan, sem frá nöðru-eitri;
eg litast um og sje, að helbleik hjátrú
hefur stolið máli, viti' og rænu
frá þeim, er áður glumdu' af glöðum vonum.
Þá sigrar Helgi; hásum feigðarrómi
hræðilegum eins og forðum, þegar
í Vegtamskviðu völvan spáði Óðni
hrakning ásaþjóð, en Helju sigur:
»Eg gæti dæmt þjer dauða eða útlegð
fyrir þessa sök að feðra lögum,
en sakir Baldurs, er þú svívirt hefur,
þú vægð skalt fá, en vinna skaltu nokkuð. —
Í vestur hjeðan eyjar miklar standa;
Angantýr þeim ræður, jarl einn ríkur,
og meðan faðir minn hjer fyrir rjeð,
fjekk hann þaðan skatt, en síðan enginn;
ferð þá skaltu fara og sækja skattinn
og færa oss að bótum dirfsku þinnar;
mælt er, jarlinn hafi harðar krummur,
(Helgi mælti enn með köldu glotti)
og liggi' á gulli eins og forðum Fáfnir,
en Fáfnisbana' inn unga skal nú reyna.
Þessi för þjer frægð má stærri heita.
enn fífla konur hjer á Baldurshaga.
Í vor eð kemur vænti eg þín aptur
með virðing heim, og um fram allt með skattinn;
níðingu'r skaltu ella hvers manns heita
og hafa griðum fyrir gjört og landsvist«.
Með þessum dómi þingi kvað hann slitið«.

INGIBJÖRG:

»Og ráð þitt er? —«

FRIÐÞJÓFUR:

»Eg hef að ráða' úr vöndu,
því virðing mín er veðsett; kröfur Helga
þær vil eg fylla, þó að Angantýr
í Elivogum hafi gull sitt grafið;
eg læt í haf í dag« —

INGIBJÖRG:

»Og lætur mig hjer
eina?«

FRIÐÞJÓFUR:

»Nei, þú Friðþjófi skalt fylgja«.

INGIBJÖRG:

»Eg fylg þjer eigi«.

FRIÐÞJÓFUR:

»Heyr mig, fyrr þú svarar.
Mjer virðist, sem þinn vitri bróðir hafi
gleymt, að Angantýr var aldavinur
föður míns og Bela; vel má vera
að viljugur hann gegni mínum kröfum;
enda hef eg tunguhvassan talsmann,
traustan, bitran hjer að vinstri hlið mjer.
Síðan skal eg senda Helga gullið
og seiðkonungsins leysi undan blótknif,
sem hann brugðnum heldur, bæði okkur.
Vindum síðan segl upp á Elliða
og siglum hjeðan braut til fjarra heima;
og vera má oss brosi blómsæl strönd,
er býður ástum vorum grið og landsvist.
Eg hirði ei um Noreg, þar sem hræddir
hopa allir fyrir seiðmanns orði,
og vilja toga helgidóm míns hjarta
úr höndum mjer og ræna yndi lífs míns.

En viti Freyja, það skal þeim ei takast.
Einn vesæll þræll er við þá torfu bundinn,
sem hann fæddist á, en eg er frjáls
og sjálfráður sem svalur fjallavindur.
Á dreka mínum moldarrekur tvær
frá haugi föður míns og haugi Bela
eg með mjer hef, og fer af fósturjörðu
þessari; við þurfum eigi fleira.
Til er, unnusta mín! önnur sól,
enn sú er blikar hjer að baki jöklum,
og til er himinn heiðríkari' enn þessi
með hýrum stjörnum, sem með reginljóma
skreyta varmasælar sumarnætur,
og skemmta elskendum í eikilundum.
Þorsteinn, faðir minn, á ferðum sínum
víða kom og sögur einatt sagði,
er sátum vjer við langelda á kveldum,
um Grikklands-haf með ótal grúa eyja,
sem eins og grænir lundar stíga úr sænum;
ríkar þjóðir undu sjer þar áður,
og heilög goð í hofum fagurreistum;
en nú er allt í auðn og grasið þekur
eyðistigu; grannar liljur spretta
af rúnum þeim; er ræða forna speki,
og grannar súlur gnæfa þar á rústum,
sem vínviðurinn vefur grænu skrauti;
og ósáð jörð þar allan gróða veitir,
sem æskja má, og gullin aldin blika
í viði þar og vínber rauð á greinum,
sem varir þínar svella af fögrum þroska.
Þar skulum við, Ingibjörg! oss una

æfi langa og byggja lítinn Noreg
í flóði kyrru, fagrara enn þenna;
og ástir vorar aptur skulu nema
in hveldu hof, og himintívar gleymdir
gleðjast skulu enn við gæfu manna.
Og þegar sæfarandi svölum anda
borinn (því þar bylja aldri stormar),
fer hjá okkar ey, og aptanroðinn
gyllir sæ, hann glaður sjer á land upp
og við helgar hofsdyr lítur standa
nýja ástargyðju — (*Afrodite*
trúi eg á tungu þeirra hún heiti).
Með undran sjer hann leiptra gullna lokka
í ljúfum blæ og fögur augu tindra
sváslegri enn suðurhimins stjörnur.
Og innan skamms mun skari henni fylgja
ljósra álfa, lítill goða hópur,
með rjóða vanga, eins og rósir sínar
suðrið hafi svölu norðri gefið.
Hve fagurt, Ingibjörg! og afarnærri
hlær ei auðnan hjörtum þeim, sem unnast?
Ef hugu'rinn hefur þor til við að grípa,
hún fús vill fylgja þeim, og byggir Vingólf
handa þeim á hjara yztum jarðar.
Kom, flýt þjer, vit, að hvert það orð, þú hjalar,
augnabliki af okkar farsæld rænir.
Allt er búið; Elliði með þöndum
vængjum bíður búinn til að fljúga
braut með hvössum vindi yfir hafið
hjeðan alfari frá heimskum byggðum.
Hví hikar þú?«

INGIBJÖRG:

»Eg get ei farið með þjer«.

FRIÐÞJÓFUR:

»Geturðu ei?«

INGIBJÖRG:

»Þú, Friðþjófur! ert farsæll,
þú fylgir engum, gengur sjálfur fremstur,
sem stefni á dreka þínum, en við stýrið
stendur vilji þinn og ræður horfi,
þótt stríðir feykistormar æsi hafið.
En vit þú, mjer er varið öðruvísi,
á valdi annarra mín forlög hvíla,
sem hirða lítt, þótt hjarta mínu blæði.
Að ofurselja sig og syrgja' og harma
og sífelt gráta'— er frelsi konungsdóttur«.

FRIÐÞJÓFUR:

»Þú ert frjáls ef fýsir þig. Í haugi
er byrgður faðir þinn«.

INGIBJÖRG:

»Minn bróðir, Helgi,
er faðir minn, og fylgja ráðum hans
eg dæmist til, því dóttir Bela stelur
ei auðnu sinni, þótt í greipar gangi.
Hvar stæðum vjer, ef slíta vildum bönd þau,
sem Óðinn festi milli veikrar meyjar
og mannsins styrku yfirráða' og vilja?
því konan líkist grannri sævarlilju,
sem bára lyptir, bára dregur niður,
og sæfarinn, er siglir yfir hana,
ei sinnir hót, þótt skerist hún í sundur.
En þó að forlög hennar falli svo,

hún fölnar ei nje týnist, meðan rótin
er föst við botninn; bleikar himinstjörnur
systur sinni, sem er líka stjarna,
í bláu djúpi birtu sinnar lána;
en ríði hún sig upp, hún rekst með straumi
um reginhöf og verður eintómt hismi.
Í fyrri nótt — sú nótt var hryllileg —
eg vakti' og vænti þín, en þú komst aldrei,
og raunamyndir, sem að rökkrið fæðir,
svartar ýgldu sig og svifu fyrir
sjónir mínar þurrar, harmi brenndar,
og Baldur sjálfur, blóðlaust goðið, horfði
svo bistur á mig, svo mjer stóð af ótti.
Í fyrri nótt eg hugsað hef um hag minn,
og fest í huga mjer að hýrast eptir,
sem hlýðin fórn við blótstall bróður míns.
Þó fór vel, að þá eg hlýddi eigi
á sögu þína um sæumgirtar eyjar,
þars kveldroðinn um blíða blómstur-velli
gyllir fold með ást og fögru yndi.
Eg veit ei, hversu veik eg er. Og draumar
æsku minnar, sem að lengi sváfu
vakna þá, og hvísla mjer við hlustir
hljóðskraf munarblítt, sem systir ræði.
Eg anza eigi, nei, eg anza eigi
yður, fornu munarsælu raddir!
Hvaða sælu sætti norræn mær
í Suðurheim; mig skortir lit og blóma
við rósir hans; minn hugur er of kaldur
handa glóð hans; myndi eg ei brenna
af sólarhita, og hugu'rinn hvarfla norður

með stjörnunum, sem standa þöglar yfir
haugum feðranna sem friðar verðir?
Þú mátt ei flýja, Friðþjófur! þær byggðir,
sem fæddur ertu til að verja' og styrkja;
þú mátt ei setja sæmd og drengskap þinn
í sölurnar, þótt kvenna ástir bjóði.
Æfi sú, er sól á enda spinnur
jöfnum dögum — fögur æfi og fábreytt —
hún er kvenna hlutfall; hugur karla
og helzt þín sjálfs ei unir kyrrð og næði;
við þig á bezt, er stórir voða-stormar
þrymja kring um knör þinn úti' á hafi,
og líf þitt áttu' að verja' og vinna orðstír
með víkingum á blóði sollnum þiljum.
Sú munarkyrrð, er mynda vannstu áðan,
hún mundi jarða hreystiverk, sem áttu
óunnin, og eins og skjöldur þinn
þinn frjálsi hugur feyskjast mundi og ryðga.
Nei það skal eigi; — aldrei skal eg stela
lofi þínu úr ljóðum höfuðskálda;
aldrei skal eg slökkva frægðar-framans
morgunroða, er krýnir ungan kappa.
Ver hygginn, vin! og hræðumst illar nornir;
björgum vorri sæmd úr sjávarháska
auðnu vorrar, — auðnan sjálf er drukknuð;
við hljótum skilja«.

FRIÐÞJÓFUR:

»Hljótum? — sakir hvers? —
»þóttú yrðir andvaka og óglöð?«

INGIBJÖRG:

»Af því að virðing okkar er í veði«.

FRIÐÞJÓFUR:
»Meyjar sæmd á mannsins ástum hvílir«.
INGIBJÖRG:
»Sá ann ei mey, sem eigi líka virðir«.
FRIÐÞJÓFUR:
»Hans virðing má ei vinna tómum brekum«.
INGIBJÖRG:
»Fögur brek, að fylgja því sem rjett er«.
FRIÐÞJÓFUR:
»Ást vor var því eigi í mót í gærdag« —
INGIBJÖRG:
»Og eigi í dag, en flóttinn rekur eptir«.
FRIÐÞJÓFUR:
»Nauðsyn kallar aptur: »komið, komið!«
INGIBJÖRG:
»Allt, sem rjett og ágætt er, er nauðsyn«.
FRIÐÞJÓFUR:
»Sól er hátt á lopti; tíminn líður« —
INGIBJÖRG:
»Og liðinn er mjer nú að fullu' og öllu«.
FRIÐÞJÓFUR:
»Gættu þín, er þetta hinnsta orð þitt?«
INGIBJÖRG:
»Eg þarf þess eigi; þetta' er hinnsta orð mitt«.
FRIÐÞJÓFUR:
»Svo far nú vel, þú fagra Helga systir!«
INGIBJÖRG:
»Ó, heyrðu, heyrðu — hæfir svo að skilja?
hefurðu' engin vinahót að bjóða
fóstursystur þinni? Áttu enga
hönd að rjetta unnustunni aumu?

Hyggur þú, eg hvílist hjer á rósum,
og hlæjandi eg neiti gæfu minni,
og slíti harmalaust úr hjarta mínu
vonir, sem með veru minni fæddust?
Varst þú ei míns hjarta morgundraumur? —
Friðþjófur hjet allt, sem fögnuð gaf mjer,
og allt, sem til er ágætt, stórt og veglegt,
í augum mínum var þjer ettthvað sviplíkt.
Þessa mynd þú mátt nú eigi deyfa
nje móti inni breysku reynast harður,
mót henni, sem að hlýtur nú að fórna
því hlutskipti, sem dýrast var á jörðu,
og dýrast myndi í Valhöll. Þessi fórn
er fullþung samt. Ó, Friðþjófur! eg ætti,
ef til vill, heldur skilið nokkra huggan.
Að annstu mjer, eg veit og lengi' hef vitað,
og minning Ingibjargar mun þjer lengi
fylgja á ferðum þínum ár frá ári;
en sorgin dofnar þó við sverðakviður
og svífur til og frá með hvikum öldum,
og dirfist ei að setja sig að sumbli,
er sigurminni drekka garpar ungir;
en við og við hún vitjar má ske þín,
er næturkyrrðin kallar aptur liðna
daga' í huga þjer, og hljóð og náföl
mun þjer birtast mynd, er vel þú kennir,
er kveðju ber frá kærum æskustöðvum.
Það er brúður þín frá Baldurshaga.
Hennar svip þú hrekja mátt ei frá þjer,
þótt hann þrútinn sýnist; mundu heldur
að hvísla ástarorð í eyra honum,

sem að næturvindur fljótt mun flytja;
þá eina veit eg huggan, enga aðra. —
Hjá mjer er ekkert, sem minn söknuð skilur;
þó sorgarmáli tali allt um kring mig:
ið háa rjáfur hofsins talar sífellt
um þig, og goðið sjálft, þótt sýnist ógna,
fær svip þinn einnig, þegar máninn lýsir.
Eg lít til hafsins, þar sem þú vannst forðum
til þeirrar, sem þjer unni, skipi stefna;
eg geng mig út í lund, þars laufgar bjarkir
sýna rúnir, sem þú ristir forðum
nafn mitt á; það grær á braut og gleymist,
og þá er maður feigur, segir sagan.
Eg að spyr daginn, hvar þig síðast sæi' hann,
og svarta nóttu eins, en bæði þegja,
og hafið sjálft, sem ber þig, svarar eigi,
en stynur þungan fyrir ströndum frammi.
Með kveldroðanum skal eg kveðju senda,
þegar hann sig bárum þínum baðar,
og skýin, loptsins langskip, skulu veita
harmatölum hryggrar meyjar farkost.
Ein í skemmu vil eg sorgmædd sitja,
svartklædd ekkja, lífsins gleðidaga,
og á blæjur brotnar liljur sauma,
þar til eitt sinn vorið blíða vefur
með vænni liljum blæju grafar minnar.
En taki' eg hörpu' í hönd og stilli strengi,
og ætli mjer með djúpum sorgarsöngvum
að lýsa mínum heljarbeisku hörmum,
þá grípur grátur fyrir, eins og nú«. — —

FRIÐÞJÓFUR:

»Þú sigrar, kæra konungsdóttir! grát ei,
og ræktu' ei reiði mína; það var hryggðin,
er í svipan tók sjer gremju gjörvi,
en gjörvi því hún skjótt mun aptur kasta.
Þú Ingibjörg! ert æ mín heilladís,
og ágætt hvað inn göfgi bezt má kenna,
og vissa nauðsyninnar varla fær
þjer vitrara og ágætara talsmann,
þú völva fríð með fagurrjóðar varir!
Já, af nauðsyn skal nú hopa á hæli
og við þig skilja, en vonin — hún skal fylgja,
og með mjer sigla brant í Vesturveg,
og vera með mjer allt til hinnstu stundar.
En næsta sumardag eg sigli heim;
og Helgi, frændi þinn, þá finna skal mig,
og loforð mitt skal efnt og leyst mitt heiti,
og rógsök bætt, er rægður var eg um.
Þá bið eg þín, nei, heimti mjer til handa
á þingi, meðan þrymja sverð á skjöldum,
ei af Helga, heldur alþjóð Noregs,
því hún skal ráða kosti konungsdóttur,
og þann, er synjar, þyrfti eg að finna.
Og far nú vel, og vinn mjer fullar tryggðir,
og eig til minja ástar vorrar bernsku
armhring þenna. Völundur hann gjörði
og himins undur greypti öll í gullið,
en hjarta í miðju, — sem er hnossið mesta«.

(Hann fer).

INGIBJÖRG:

»Hve djarfur, vonsæll, hugrakkur og hraustur

hann hristir sverðið stælta rjett við brjóstið
á sinni norn og segir: »hopaðu' undan!«
Æ, Friðþjófur! hún hopar ei að heldur,
hún hlær að Angurvaðli og gengur rakleitt.
Þú þekkir eigi minn inn myrkva bróður,
og þín in hreina hetjusál ei kennir
ið haturþrungna djúp, sem ávallt sýður
í geði hans af grimmri heipt og öfund.
Aldrei gefur hann þjer systur sína;
hann selur fyrr af hendi líf og ríki,
og blótar systur sinni öldnum Óðni
eða Hringi karli, sem hann berst við. —

Þó vonir blíðar bregðist þannig mjer,
eg ber mig vel, fyrst þú átt öruggt hjarta,
og þótt mig hrelli harmaröökkrið svarta,
heilladísir allar fylgi þjer!
Á armhring þínum tímann get eg talið,
þótt tregastundin verði þung og mörg,
unz heim þú kemur — hold er foldu falið,
þú finnur hvergi þína Ingibjörg«.

---

IX.

## Grátur Ingibjargar.

»Komið er haust,
kveða við hrannir með nákaldri raust;
helzt má þó huganum fróa
að horfa' út á flóa.

Sat eg og sá,
seglið, unz hvarf það mjer vestur í sjá;
inndælt má Elliða vera
ástvininn bera.

Hrannir um sjó!
hamist ei svona; er skriðið ei nóg?
lýsið þjer stjörnur á legi
leiðina fleyi.

Fagur í vor
Friðþjófur kemur, en heitmeyjar spor
finnur ei sveinninn í sölum
nje svásligum dölum

Liðin og köld
liggur hún þá — eða tryggðanna gjöld
þolir í helfjötrum harma
harðlyndra barma.

Vængprúðum val
vinur minn gleymdi; þann mata eg skal,
vandlega vernda' hann, og eiga
víkinginn fleyga.

Hann skal á hönd
húsbóndans sitja við dúks þessa rönd;
glitvæng eg gef honum fríðan,
gullklóm eg prýði' hann.

Fagurleit fló
Freyja í valsham of hauður og sjó;
huggði' hún að hjartfólgnum Óði
harmsollnum móði.

Hamur af þjer
hentar ei, valur! þó ljeðirðu mjer;
dauðinn einn vængi mjer veitir,
valshami skreytir.

Öxl minni af,
augnhvassi fullhugi! líttu' út á haf.
Hvernig sem horfum og þráum,
hann við ei sjáum.

Heimti mig hel,
heim fyrr enn kemur hann, skilaðu vel
heilsan frá heitmeynni látnu
hetjunni grátnu«.

---

## X.
# Vesturförin.

—

Stóð á ströndu
stillir Helgi
grimmgeðjaður,
og á gýgjar hjet.
Sortnar þá að svörtu rökkri,
svífa um loptið þrumuský,
þyngir Ægisdóttur dökkri,
dynur hvítum faldi í;
loga-reiðir rauðum böndum
ragna skreyta þrútið tjald;
hnípin sjófugl heim að ströndum
hraðar sjer of bárufald.
»Hvessir nú, hlýrar!
heyri' eg storma
vængjum veifa,
víkjum að heldur.
Bíð þú í lundi,
blíð, tárfögur,
Ingibjörg mæra!
minnar komu«.

---

En tröllkonur
tvær upp komu
Hamglöm og Heiðu'r

við blýr Elliða.
Vængur storma við það losnar,
vog frá grunni ýmist slær,
eða hátt frá hafi flosnar,
himni mót hann sækir ær;
koma fram úr dimmu djúpi
draugar hafs og býsnin öll
undan hvikum hrannar hjúpi
holskeflanna drifin mjöll.
»Sælla var að sigla
of silfurvoga,
er bjart skein tungl,
til Baldurshaga;
hlýjara' oss þótti
við hjarta snótar,
er við brimhvít brjóst
brúðar hvíldumst«.

---

Stíga Sólundir
úr sollnu djúpi;
þar er lygn lögur;
leitum þangað!
Sjóvíkingur síðla hræðist
siglu vanur traustri eik,
heldur stjórnvöl, hugur glæðist
hans við grimman veðraleik;
skeið má herða skerjahestur,
skarpar öldu rista kinn;
beint í vestur, beint í vestur
brunar marargammurinn.
»Lystir mig lengur

við lög að þreyta;
veðri og víkingi
vel um semur;
skal-at Ingibjörg,
þótt el um þjóti,
stormgamm vorn sjá
með stýfða vængi«.

---

Vex nú vogur,
veður ærist,
hrykkta hlýr,
hvín í böndum.
En þótt Rán í reginmóði
riðlist kring um valið fley,
traustur drekinn goða góði
glúpna fyrir vill þó ei;
stjörnuhrap um haust sem falli,
hleypur hann í snörpum byl,
eins og hindin hátt í fjalli
hoppar yfir björg og gil.
»Kyssti' eg unga
Ingibjörgu
Beladóttur
í Baldurshaga;
kyssir nú Rán
köldum munni
saltdrifinn kamp
á sækonungi«.

---

En fönn fýkur
með felli-byljum,

smellur hart
hagl við þiljur.
Dimmir þá á drekaþiljum,
dagur hvarf í svartri nótt,
sem í dauðans döprum hyljum,
dáin í er hvílir drótt;
galdraveðrið geysi-hreka
gjósa lætur himni mót;
kolgrátt hamast kring um dreka
kynjum magnað sjávarrót.
»Býr oss nú bólstra
Blóðughadda;
sváslegri, svanni!
kveð eg sæng þína.
Leggjumst djarflega,
drengir! á árar
traustu Elliða,
er æsir gjörðu«.

---

Fellur inn stórsjár
á stjórnborða,
en í skyndingi
skolast þiljur.
Friðþjófu'r dró þó hratt af hendi
hringinn Bela-konungs-naut,
dvergasmíði; darrabendir
dýran grip í sundur braut;
merkur þrjár hann mundi standa,
meginfagur til að sjá;
skipti brotum skelfir randa
skatna milli þiljum á.

»Fagurt gull
skyldi friðill eiga;
trúi-at tómhentur
tryggðum Ránar;
köld er hún að kyssa,
kenjótt að hálsa;
festum glymbrúði
gulli rauðu«.

---

Ógnar stormur
enn af nýju,
rifnar voð,
en rá brestur.
Og í djúpu öldu kafi
áföll fá þeir stór og hætt,
austu'rinn vex, því öllu hafi
engum móti verður stætt;
Friðþjóf sjálfum fannst sem stæði
feigð og dauði innan borðs,
þó ljet hærra' enn Hrannar æði
hreimur kappans þróttar-orðs.
»Björn! tak stýri
báðum höndum,
er-at veður slíkt
frá Valhöllu;
galdur er á seiði;
svartur veldur
gramur Helgi.
Gæta vil eg leiðar«.

---

Vatt sjer víkingur

sem visla klifi
hátt á hún,
og sem hauku'r þar sat.
Fyrir stefni stórhval sjer hann,
stórvaxin sem flyti ey,
hafflögð tvö um hrygg hans þveran
hamrömm sátu' á græðismey:
Heiður sveipuð hjelustakki
hrammi sló sem hvítabjörn;
vængi skók með hrævahlakki
Hamglöm eins og ferleg örn.
»Sýn nú, Elliði!
að sje þjer laginn
eikarsvíri
orkurammur;
sjertu goðborinn,
sundur brjóttu
eirbarði þínu
illkvikindi«.

---

Hlýðir eiganda
Elliði,
stökkur á brjóst
á stórhveli.
Gýs upp óðar blóðgu'r bogi
benjum hvals úr himni mót;
skrýmslið fjell með feigu sogi
fimbuldjúpt í sjávarrót;
í því bili fleinar fljúga
Friðþjófs beint úr hetjumund;
örninn gegn nam annar smjúga,

annar björninn sömu stund.
»Heill þjer, Elliði!
hygg eg síðla
blóthval Helga
úr blóði rísa;
nje Heiði' og Hamglöm
hræðast þurfum;
beiskt er að bíta
í blár eggjar«.

---

Lygnist lögur,
lægist stormur,
blæs andvari
til eyjar nærri.
Kom nú sól með brosið blíða
buðlung lík í glæstum sal,
aptur gleðin fyllir fríða
fley og sæ og björg og dal;
aptangeislar gullnir mála
græna hlíð og kyrran lund;
kenndu runnar- sterkir -stála
strendurnar við Effjusund.
»Bænir drósar,
bjartar smámeyjar
beygt hafa knje
fyrir böndum heiðnum;
hreinn, tárfagur
hrært hefur æsi
svanni svanbrjósta;
samir að þakka«.

---

En Elliði
afarmóður
af hvalriði
hægt fram sígur.
Þó er fremur fjörvi þrotin
Friðþjófs sveit á bárumar;
styður sig við sverðið lotinn
sjerhver reynir branda snar;
fjóra þeirra ber á baki
Björn af skeið á fjöruslóð;
Friðþjófu'r átta frá eg taki,
fölva hressir elds við glóð.
»Blygðist eigi,
þótt bleikir sjeuð;
hörð eru fangbrögð
Hrannar systra,
Gleðji' oss nú gullhorn
góðum miði.
Skal eg enn minnast
Ingibjargar«.

## XI.
# Friðþjófur heimsækir Angantý jarl.

Nú svífur sagan þangað,
er situr Angantýr,
og drakk um daga langa
með dróttum jarlinn skýr;
eitt kveld hann horfði kátur
á kaldan rastateig,
er sól í sílalátur
sem svanur gullinn hneig.

Við gluggann ferða gætti
inn gamli Hallvarður,
sem varir gjarna vætti
í veigum allharður;
þann vanda hafði hetjan
af horni í einum teig
að súpa; sízt að hvetja' hann
við sæta þurfti veig.

Nú horni' úr hendi' hann þeytti
í höllu inn og kvað:
»eg sje hvar sveinar þreyttir
af sundi koma að;
úr stormi stafnahjera
eg stýra sje á land;

tvær hraustar hetjur bera
ið hrakta lið á sand«.

Og hvörmum hilmir rennir
að hvala svölum beð,
»eg Elliða«, kvað hann, »kenni
og kappann Friðþjóf með;
eg þykist þekkja drenginn,
hans Þorsteins frækna mög,
þann svip á annar enginn,
sem yfir siglir lög«.

En óðar upp frá borði
þá Atli' inn rammi spratt;
hann fýstist mjög að morði
og miði frá sjer hratt,
og svörum svo hann hreifir:
»eg sjá vil Þorsteins nið,
hvort eggjar allar deyfir
og aldrei þiggur grið«.

Með blóðgum berserk fylgdu
hans bekkjunautar tólf;
sem tröll sig allir ýgldu
og eggja hristu kólf;
þeir æddu að eyjabandi,
þars ítri drekinn stóð,
og Friðþjófu'r sat á sandi
og sveina hressti móð.

»Í hendi ráð þitt hef eg«,

við hetju Atli kvað,
»nú fús þjer færi gef eg
að flýja' eða reyna nað?
en griða' ef girnist beiða
(það gjöri eg fám í vil),
með vinsemd vil eg leiða
þig vísa hallar til«.

»Þótt frekt oss þreytti ferðin«,
svo Friðþjófu'r kvað og brá,
»hver bezt vor bíta sverðin
þjer banna' eg ei að sjá«.
Þá glumdi' í grundar veggjum,
er grenjuðu hjaltaljón;
úr Angurvaðils eggjum
gaus eldur vítt um frón.

Þeir skiptu höggum hörðum,
en hissa störðu menn,
og hentu höggnum börðum
á hauður báðir senn,
unz Angurvaðill ægur
úr Atla rammri hönd
um hjaltið, hjörinn frægur,
nam hluta benjavönd.

»Við vopnlausan mann vega
eg vil ei«, mælti hinn,
»en dugðu drengilega,
og drýgjum fangbrögð stinn«.
Sem boðar kletta kring um

þeir kreistu römmum móð
brynjuðum saman bringum,
svo buldi' í foldarslóð.

Sem hýðbirnir á heiði
þeir hamrammt þreyttu fang
eða' ernir æfareiðir
með æðis-trylltan gang;
sem björgin bresta mundu
og brotna skógartrje,
þeir glímdu grimmri lundu
og grundina vóðu í knje.

Friðþjófur loks þó felldi
sinn fjanda' á lága storð.
»Eg bana brátt þig seldi«,
þau bistur kvað hann orð;
ef hefði' eg hjörinn bjarta,
svo Hel þú gistir brátt,
þitt blóðugt berserks hjarta
eg brytja skyldi smátt«.

Þeim svarar Atli orðum:
»þinn unda sæktu kníf;
í sömu sit eg skorðum
og sel ei dýrt mitt líf;
til Óðins allir ganga
þá einu' og sömu brú;
í dag eg dauðann fanga,
um daga fáa — þú».

Inn frækni beið ei boða,
en benja sótti ljá,
að víking reiddi voða,
en við hinn hvergi brá;
þá stilltist geðið stríða,
hann stöðvar hjaltavönd,
með hetjubrjóstið blíða
hann berserk rjettir hönd.

En Hallvarður frá höllu
með hvítum benti staf.
»Þið glatið gamni öllu«,
svo glumdi halsins skraf.
»Und silfurhornum svásum
nú svigna borð hvert fer,
og kulda slær að krásum,
en kverkar þorna' á mjer«.

Nú saman sáttir ýtar
um salar ganga dyr;
þar fengu firðar líta,
er Friðþjófu'r sá ei fyr —
ei viðarveggi auða,
en veglegt brosti tjald
með rósahringi rauða
og ritaðan gulli fald.

Ei gamlar aringlóðir
á gólfi sá hann þar,
en marmara- hvelfdar -hlóðir,
er hyrjar geymdu skar,

ei svartan reyk þar sá hann
nje sóti roðinn ás,
en kristalls glugga gljáan,
og greipta hurð með lás.

Þar silfurhríslur hengu
með hundrað fögur ljós;
um salinn glóðir gengu
af geislum eldasjós,
og steiktur heill við horfði
þar hjörtur kátri sjót
með búin horn á borði,
og beygði gylltan fót.

En bak við sveina' í salnum
stóð silki- fögur -lofn,
sem brosi blóm í dalnum
á bak við hríslustofn:
það liðast lokkar svartir,
það leiptrar meyjar brá,
það blika vangar bjartir,
það brosa varir smá.

Á svásum silfurstóli
á sæti ríkur jarl;
af ljósu linnabóli
sá lofðung glóði snjall,
með gylltan hjálm og hrínga
og harla dýran feld;
logaði bragnings bringa
af bjartra stjarna eld.

Nú gramur gekk frá borði,
er gest hann koma sjer,
og heilsar hlýju orði:
»sit heill ið næsta mjer,
því horn eg tíðum tæmdi
með traustum Víkings nið;
hans sonur sóma-ræmdi
nú sitji' að vinar hlið«.

Þá skenkti' hann vínið valda
(það var frá Sikiley,
og sauð sem sjóðheit alda,
og svall sem græðismey):
»þjer vist sje vís hjer inni,
míns vinar sonur kær!
og þjóðfrægs Þorsteins minni
sje þessi skálin tær«.

Þá gall við hörpuhreimur
um hrausta Skotaþjóð;
sem þungur þrumueimur
þau þóttu' in velsku ljóð;
þá gekk fram greppur norskur
að gömlum sið, og kvað
um Þorstein, halur hoskur,
svo hirðmenn dáðust að.

Við Friðþjóf fylkir hjalar
um frændu'r á Noregs-grund;
og hinn við hilmi talar
með harla spakri lund,

svo hosklega' orðum hagar,
svo hvellt hann skýrði frá,
sem mundi minnug Saga
við Mímis helga lá.

Og þá hann skýrir skötnum
frá skrýmslum hafi á
og Helga jöfurs jötnum
og járna- harðri -þrá;
þá glaðnar geðið rakka,
þá glottir Angantýr,
og þýðir drengir þakka
inn þulda æfintýr.

Þá kappinn minnist mætur
á mæra Ingibjörg,
er gullnum tárum grætur
við glæstan Baldurshörg;
þá viknar þernan þýða
og þrá í brjósti rís;
svo tryggvan biðil bíða
sjer brúður sjerhver kýs.

Og erindi sitt um síðir
hann segja jarli vann,
sem hetju orð á hlýðir,
unz hljóð hann fær í rann:
»Um skattgjald ei eg annast;
eg á að frjálsu mitt;
við konung Bela' eg kannast,
en kvabb mig furðar hitt.

Eg þekki' ei konungs kunda,
og krefji þeir skatts af mjer,
eg fyrst við þá til funda
mun fara beint með her,
þótt firnist fjör og þróttur —
en faðir þinn var mjer kær».
Þá benti' hann dýrri dóttur,
er dögling sat þar nær.

Og siðug silkinanna
úr sæti glæstu spratt;
svo mjótt var mitti svanna
og meyjarbrjóst svo glatt;
og fögur lilja Lofnar
sjer leyndi kinnum á,
sem fjöllit fluga', er sofnar
und faldi rósar smá.

Og drósin gekk til dyngju
og dýran grip kom með —
svo svása silkipyngju,
að sveitin undrast rjeð;
þar blikar láð og lögur
og lopt og skógargrein;
í kring var gullinn kögur
og kveiktur lás í stein.

Það hnossið hringaslóðin
að hilmi rjetti sling,
en fylkir fyllti sjóðinn
með fögrum ormabyng:

»Það silfur vil eg selja«,
kvað sjóli, »gestur! þjer,
ef viltu, vinur! dvelja
í vetur með oss hjer.

Þú víst átt hugfullt hjarta,
en hafs er torvelt svið,
og Heiðu'r og Hamglöm svarta,
má henda', að rakni við.
Þótt Elliði hvalinn illa
í ægis keyrði hyl,
það skrýmslis-skarð að fylla
er skrýmslamergð enn til«.

Við glaum og fagurt gaman
í glæstri jöfurs höll
svo drukku drengir saman,
unz dagur lýsti fjöll.
Að lokum minni mildings
af megni drukkið var;
til vors í höllu hildings
sig hressti kappinn snar.

---

## XII.
# Heimkoma Friðþjófs.

En vorið grær við gullin ský
og gróða vekur sólin hlý,
þá þakkar Friðþjófu'r fylki greiða
og fleyi hrindir á æginn breiða;
og árasvanur svásum vang
of sæinn fer við hraðan gang;
því sunnanvindar með vorsins tungu
í voðum eins og þrestir sungu,
og Ægisdætur með blæju blá
und börðum leika' og hrindast á.
Hve gott er að stefna' af storðu fjærri
að ströndu fósturjarðar kærri,
þars reykur stígur frá heimahögum,
og hugu'rinn unir bernskudögum,
og lindir blár á leiksvið minna,
og líta hauga feðra sinna;
en yngismær við unnarstein
á æginn mænir og þráir svein! —

Í daga sex hann sigla náði,
á sjönda dimma rönd úr gráði
við himinfald hann hækka sjer
með hlíðarbrún og ey og sker,
og fósturjörð í feldi grænum

sjer fögur lyptir upp úr sænum.
Af hömrum sjer hann fossa falla,
og frána gnæfa jökulskalla;
hann kveður nes og sjávarsund,
og siglir undir goðalund,
þars sumri áður sætt og rótt
hann sat hjá brúði marga nótt.
»En grunar ekkert svannann svinna?
og sjer hún ei til ferða minna? —
Úr Baldurshaga hringaþöll
er hilmis kann ske flutt í höll,
og grætur þar við hörpuhreim«.
Frá hofsins mæni vítt um geim
sjer valur kappans verpur þá
og vaskur öxl hans stöðvast á;
hann hristir fiður, hreifir klær
og hvössum vængjum loptið slær
og hvergi eirir haukur slingur;
að hlustum Friðþjófs nefi stingur,
sem vildi hvísla valið orð
í vinar eyra hrings frá skorð
og — kann ske hennar hinnsta vilja,
en hulda rún má enginn skilja,

Um nesið fram nú fleyið svífur
og fljótum skriði hrannir klífur,
sem hlæji móti heimaslóð,
en hetjan kát í lypting stóð.
Of augu bæði hvolfir höndu
og horfir beint á kunna ströndu,
en þótt hann hvessi hvarma gler,

hann hvergi bæinn Framnes sjer.
Sinn arinn blasa á brunaeiði
sem beinagrind á tómu leiði
hann sjer og öll sín sviðin lönd
og svæla byrgir auða strönd.
Í reiði' hann stökk á storðu kennda
og stúrinn skoðar garðinn brennda,
þars feður bjuggu, barn hann hló —
í bili sama til hans fló
hans vaski, loðni veiði-hundur,
er veturliða á breiðri grundu
opt hafði fyrir Friðþjóf mætt;
hann flaðraði nú með geðið kætt.
Inn fríði jór með fætur rakka
og faxið gyllt og stæltan makka,
er Friðþjóf opt á baki bar,
nú brunar heim úr dalnum snar;
á Friðþjóf mænir, frísar, biður,
og flipa stingu'r í lófa' hans niður,
en hundi' og fáki', ei hefur neitt
nú hetjan snauð, er fái veitt.
Án skýlis heima hryggðum bundinn
nú horfir kappinn á sviðna lundinn;
þá ganga' hann sjer að garði inn
inn gamla Hilding, fóstra sinn:

»Ei undrar mig sú auðnan kalda,
ef örn fer braut, má hreiðrið gjalda!
Sá fylkir kann að friða lönd
og fylla konungsheitin vönd,
að blóta goð og brögnum fjóna,

og brenna óðul sinna þjóna,
og gremju fær mjer grimmd hans örg;
en grein mjer, hvar er Ingibjörg?«
»Þau boð eg flyt«, hans fóstri sagði,
»er fölvari gjöra þig í bragði,
því Hringur kom með hótin dimm
og hafði mót einum skildi fimm.
Í Dísardal varð darrafundur,
svo dreyraöldur fjellu' um grundu;
að gömlum vanda Hálfdán hló,
en hjörs með drengskap neytti þó;
eg skildi hjelt fyr mildings megi,
og mikið lærði' hann á þeim degi,
en leikur þó svo lykta vann,
að lofðung Helgi' á flótta rann;
á veginum heim úr vígrasennu
hann valda náði Framnes-brennu.
En Hringur bræðrum svör þau sendi
að selja Ingibjörgu' af hendi
að sættum fyrir svívírðing
eða selja líf og ríki Hring.
Þeir bræður játtu boðum þeim,
og brúðurin fylgdi skjöldung heim«.

»Þú fláráð mær!« var Friðþjófs svar,
»in fyrsta hugsan Loka var
in slæga lygi; í meyjarmynd
í mannheim sendi' hann flærðarkind;
með helblám augum, tára táli,
hún tælir, freistar, veldur brjáli;
úr vindi' er hennar vesöl tryggð,

úr vorís hennar svikul dyggð;
í brjósti hvískrar brigðin fláa
með brosum lygur vörin smáa —
og þó er helzt í huga mjer,
hve hjartfólgin hún var og er.
Frá fyrstu stund, er má eg muna,
með meyju nam eg lífi una;
í hverjum leik og hverri raun
var hringaskorð mín sigurlaun.
Sem vaxi saman viðarstofnar,
en valdi Þór, að annar klofnar,
þá deyja báðir sama sinn;
ef svás er annar, blómgast hinn:
við undum svo við sorg og gaman
við svanna er eg vaxinn saman,
en nú er eg einn. — Þú vegleg Vör,
um víðan heim er þreytir för
og skrifar eiða' á skjöldinn ríka!
skrifaðu' ei lengur heimsku slíka,
svo lygi' ei rönd hver leiptri full;
það lýtir um of ið tryggva gull. —
Er Nönnu saga sönn? — Eg kenni
ei sannleiks mark á nokkru enni,
og brjóst hvert tel eg tryggðalaust,
fyrst tældi' mig Ingibjargar raust,
svo mild sem blær á blómsturengjum
og Braga ljóð frá gígju strengjum.
Eg vil ei hlýða' á hörpuljóð
nje harma lengur brigðult fljóð;
með storminum vil eg steðja' um græði,
og stilla blóði Hrannar æði,

og hvar, sem vargi veitt er bráð,
eg vera skal um storð og gráð,
þá mætti vera, að krýndan kynni
eg konung hitta' á götu minni,
og ástum sjúkan yngissvein
með allan hug á silkirein;
svo heimskan mann, að trygðum treysti' hann,
frá tryggð og fjörvi' eg óðar leysti' hann,
frá svívirðingu, svikum, þrá
og sorg, sem eg nú kenni á«.

»Hve heitt er blóð í ungum æðum»,
inn aldni svarar harmaræðum,
»unz ólguna kælir ellin grá —
en Ingibjörgu' ei niðra má.
Mín fóstra má ei góð þess gjalda,
er grimmar skapanornir valda.
Sem Viðar sat hún hæg og hljóð,
en hjartað stundi þungum móð;
svo hljóðri tryggð hún trega mundi,
sem turtildúfa í suðurlundi.
En mjer hún sagði hulinn harm,
sem hrelldan nísti meyjar barm;
sem sjávarfugl með brotna bringu
til botnsins ótt sjer niður stingur,
svo birtan eigi sár hans sjái,
og situr þar í kvaladái,
svo byrgði' hún með sjer böl og neyð,
og birti mjer einum, hvað hún leið:
»Eg blótfórn er«, svo brúður hjalar,
»bindið mjer vetrarliljur svalar

að höfði' og hvíta baldursbrá;
fyr Belaríki eg deyja á;
svo dey eg braut frá bölvi nauða —
nei! — Baldur heimtar seigan dauða
með sollna und og æðaslátt;
þá einu vill hann þiggja sátt.
En birt þú engum mæðu mína,
meðaumkan skal mjer enginn sýna,
þótt helnauð spenni hörð og mörg; —
en heilsa Friðþjóf frá Ingibjörg!«

Á brúðkaupsdegi bjartrar meyju
(þann brúðkaupsdag eg vildi eigi
á rúnstaf hafa ritað minn)
með ríkri meyju fylgdin svinn
til hofsins stefndi hraustra sveina
og hvítmöttlaðra silkireina:
Í broddi greppur gígju bar,
en gylfadóttir á svörtum mar
svo fölleit sat, sem svipur líði
og svörtu skýi' um loptið ríði.
Úr söðli hóf eg hringabil
og hana leiddi blótstalls til,
þars Lofnar eið vann svanninn svás,
og snjallri röddu hvítum ás
hún bljúg nam senda bænarorð,
og beiskan grjet hver faldaskorð.
Þinn bjarta hring á brúðar hendi
í bili sama Helgi kenndi,
og bauginn þreif og Baldri fjekk;
það beint mjer svo til hjarta gekk,

að fram eg hljóp og brandi brá
og bauð ei fje við Helga þá;
en hún mig stillti', og hógvær tjer:
»eg hart að vísu leikin er,
en lífs er ei enn þá endað spor,
Alfaðir dæmi milli vor!«
»Alfaðir dæmir«, drengur svarar.
»En dóm minn skal eg ei heldur spara.
Að miðju sumri er Baldursblót,
og blótgoðinn er við heiðið mót;
þann brennivarg, er seldi systur,
eg sjá vil bráðum hefndarþyrstur«.

---

XIII.

## Baldursbál.

—

Blóðgan mána bar við tind,
birtan varð að skímu;
var sem dreymdi dröfn og strind
dags í milli' og grímu.

Í hofi kynt var Baldurs bál,
bráðum glóðir hverfa;
þá er bjartan bróður mál
blindum Heði' að erfa.

Híma blótmenn hofs und vegg,
hnissa' að eldibröndum;
á bringu tók þeim brimhvítt skegg,
blótkníf ljeku höndum.

Helgi krýndur hjá þeim stóð,
heiðnu blóti sinnir,
vex þá brak og vígahljóð
vígðu goðs í inni.

»Lokaðu hurðu hofsins, Björn!
hart þótt að þeim kreppi;
höggva skaltu' í herðar hvörn,
heldu'r enn hjá oss sleppi«,

Bliknaði kóngur, kenndi snar
kappans raustu snjalla;
heyrði' hann Friðþjóf frækna þar
sem feigðar stormbyl gjalla.

»Tak hjer skattinn, þess er þú
þóttist smáður bíða;
bregð svo hjör og þústu nú
í Baldurshaga' að stríða.

Berskjaldaður, fylkir! fram
flýt þjer við oss leika;
fyrsta höggið hæfir gram,
hitt mun trauðla skeika.

Hurð er lokuð sem þú sjerð,
svelt hef eg inni skolla;
mundu þína Framnes-ferð
og fylkisdóttur holla!«.

Sjóð frá belti síðan brá
sverða- rammur -bendir,
og með krapti krúnu á
konungs miðja sendir.

Úr fylkis munni fossar blóð,
fyrir sortnar auga,
hneig í óvit hofs á slóð
hirðir vjestallsbauga.

»Ef geig þjer vinnur gullið þitt,

geit þíns ríkis mesta!
tími' eg síst, að sverðið mitt
sundri bleyðu vesta.

Ragir seiðmenn! reiðið ei
ramma fórnar-knífa,
skuli' eg yður, galdra-grey!
grimmri feigð við hlífa.

Reiðst ei, Baldur blíði! mjer,
bið mín kyrr og þolinn;
hringu'rinn góði á hendi þjer
er, hjerna' að segja, stolinn!«

Þreif hann til, en höndin hring
hjelt í mót sem fastast,
loks hún rjettist, losnar þing;
á logann Baldur kastast.

Rauðar tungur hvæsa hátt,
hyrjar fossar elfur;
Björn stóð fölur fram við gátt,
Friðþjófu'r sjálfur skelfur.

»Út skal drótt, en opnist gátt,
enginn má sjer hlífa,
hofið brennur, hingað brátt
hafið allt má svífa!«

Nú var keðja knýtt frá strönd
kappa tengdum höndum;

seldi báru hendi hönd,
hrykkti' í sviðnum bröndum.

Sem hríðarvættur hetjan stóð
heljar-báls í kverkum,
hellti vatni' í heita glóð,
með herjum skipti verkum.

Æðisgengnum ógnarbrand
enginn stenzt við skjöldur;
drýpur gull um gljúpan sand,
glóa silfuröldur.

Dreyrugu'r hyrjar hani hvopt
í heljarbrimi glennir,
hristir kamb í háa lopt,
himininn glóð um spennir.

Morgunblær um breiða grund
bálið drjúgum æsir;
sig í þurran læsir lund
loginn þá og hvæsir.

Stökkur bálið eik af eik,
eins og stórflóð renna;
heljar líkist hrykaleik
hofsins ægi-brenna.

Björkum hyrjar skellir skafl,
snarkar óttalega, —

hvað skal mennskra manna afl,
er Múspellssynir vega?

Eldhaf brýzt um Baldurslund,
báls ei stöðvast vogar,
rennur sól, en sær og grund
sýnast tómir logar.

Allt er hulið eldi frón,
aska' er hof og lundur;
Friðþjófu'r horfði á hroðasjón
hryggu'r um morgunstundu.

---

## XIV.

# Friðþjófur flýr úr landi.

Á þiljum stóð
með þungum móð
og sárar sorgir
um sinnisborgir
Friðþjófur þá
og fölvan sá
reyk hofsbranda
rjúka' of sanda.

»Þú, reykur! far
af foldu snar
upp til Valhallar
og ofan kalla
ins hvíta hefnd,
er hörð mun efnd;
fljúg hátt með kalli,
svo hvelfing gjalli,
um Baldursbál
og brennumál,
um viðargoðið
af glóðum hroðið,
óðar enn flatt
á eldinn datt;
um hofslund fríðan

heilagan síðan
sverð voru gjörð —
hann er sviðin jörð;
fjekk ei þann heiður
að fúna meiður.
Eg frjett þèr fel
og farðu vel
og Baldurs eyra
lát þýsnir heyra;
við þokugoð
á þokuboð.

Leyfður mun ljóði
lofðung inn góði,
sem ei hratt mjer
frá einum sjer,
en rak úr ríki;
ráð er eg víkji
til bárugeims,
ins bláa heims.
Til setu' ei boðið
oss, svása goðið,
Elliði! er;
um aldinn ver
nú legðu leiðir,
þótt löður freyði
á yztan heims jaðar,
og eigi skaðar,
þótt blæði blóð,
en berjist þjóð.
Nú hús mitt ertu

og heimili vertu,
alls Baldursfrændi
mig býli rændi;
frá Noregs-fold
og fósturmold
á braut mig ber þú,
og bót mín er þú.
Þú, svarta fley!
skalt svása mey
mjer bæta líka,
því brást in ríka.

Þú, víða haf!
þú veist ei af
jöfra ofríki
nje öfundsýki,
þinn sjóli er sá,
er sjónum á
ekki skelfir,
þótt Unnur hvelfi
við harðan þjóst
in hvítu brjóst.
Þín votu strindi
eru víkings yndi;
með kili plægir
hann kaldan ægi,
en dreyra-dögg,
þars dýnja högg
og falla hræin,
frævir sæinn.
Og sæmd vex ný

af sáði því
og gnægtir fjár
og Freyju-tár.
Fýsir mig fylgja
þjer, frána bylgja!
lygnt við löður
liggur míns föður
haugur grænn,
svo hýr og vænn,
en minn skal blár,
þars bólgnar sjár,
haugurinn valdi
með hvikum faldi
sveima um sæ,
og sollin hræ
draga niður
í drafnar iður.
Hörð var oss æfi
hlutuð á sævi;
við unnarstein
vil eg bera bein«.

Svo kvað inn hryggvi,
en knörinn dyggvi
nauðugur svam
á sæinn fram
hjá skerjagörðum,
er skýla fjörðum
Noregs æ
fyrir óðum sæ.

Í tröllsham frekum
á tíu drekum
þá Helgi svam
á sundin fram.
»Helzt er nú feigur
Helgi deigur
og vill nú falla«,
víkingar kalla.
»Fýsir hann þrá
sína frændur sjá;
inn illi hari
til Óðins fari!«.

Kom þá voði
að konungs gnoði,
því sama bil
í sævarhýl
það sökk; á sundi,
frá sigluhundi
með nauðung náði
niflungu'r láði.
Björn þá mælti:
»þig, buðlung! vælti
mitt ráðið traust,
því ræsis flaust
í nótt eg meiddi
og móðgan sneiddi
þig hefndavon,
þú, herjans son!
en fleyjum völdum
í faðmi köldum
mun halda Hljer,

en hitt fór ver,
að ei hjelt drottni
Unnur á botni«.

En Helgi stóð
með heiptarmóð
bjúgur á söndum,
og báðum höndum
stæltan boga
við stein vann toga
öllum mætti,
en afls ei gætti,
unz strengur brast,
en steinn við gnast.

Það kappinn sá
og kesju brá
hátt og stælti,
til hilmis mælti:
»eg helörn ber
í hendi mjer;
ef braut hann flygi,
þú bleikur hnigir
í Niflheims kverk
fyrir níðings verk;
en hræzt ei, eg rjóði,
Helgi! blóði
brandinn bjarta
þíns blauða hjarta,
því níðstöng þá,
sem þitt nafn er á,

eg ei skal hrella
og aldrei fella.
Sæmd fyrir smán
þú seldir Rán,
líkt sem áður
á landi smáður.
Ryð boga braut
fyrir buðlung. Þraut
aðra skal reyna,
og engan leyna,
hvort fræknar mjer
ei ferzt enn þjer«.

Til ára þrífur
og öldur klýfur
frækn í ferðum
furu erðum
úr Guðbrandsdal,
en garpaval
svo miklu orkar,
að undra-forkar
brotna náðu
sem brunninn þráður.

Rann þá sól
á ragnastól,
og svalur andi
sveif frá landi
í geisla glaum;
úr gljúpum straum
Ránardætur

hann rak á fætur.
Of öldu toppa
Elliði hoppar
fríður af stað;
Friðþjófur kvað:

---

»Þú norður-geimsins
in gullna brá,
við öndveg heimsins
er unir há,
mín hjartkær móðir
með heilnæmt hvel
og hetjuþjóðir,
far vel, far vel!

Þig, Noregs sólu,
þú, sjónarsteinn
á sumar njólu!
nú kveður sveinn;
þú sjónarhringur
og sólarhvel,
er sveit um kringir,
far vel, far vel!

Þjer fjöllin styrku,
þars fremd býr stór,
og bjargavirki,
þars byggir Þór,
þjer skæru legir,
er skemmtið vel,

og sker og eyjar,
far vel, far vel!

Og fornu haugar
við hafið blá,
þars lindir lauga
opt lauka smá! —
Ei sæmdin gleymist,
þótt svört sje hel,
hjá Sögu' hún geymist —
far vel, far vel!

Og far vel lundur
og fögru svið,
þars barn eg undi
við bekkjar nið!
og æskubræður
eg auðnu fel
frá öldnum græði,
far vel, far vel!

Minn bær er tekinn,
en brúður misst,
á braut eg rekinn
er lands úr vist;
því Ægi stríða
eg auðnu fel;
þú æfi blíða,
far vel, far vel!«

---

XV.

## Víkingabálkur.

Og hann sveif yfir sæ líkur sviplegum val,
 þeim er sækir með hamförum bráð,
en með Víkingabálk gaf hann vegöndum lög;
 sá, er vill, má hjer líta þau skráð.

»Ei má tjald sjást á súð, ei má svefn festa' í bæ,
 því við salsdyr er vegandi flár;
sofa' á skildi þú skalt meður sköfnung við hönd,
 þá er skálatjald himininn blár.

Ei á hamarskapt hót lengra handfangi Þór,
 ei á hjör nema alin hann Freyr;
það er nóg, hafirðu' hug; komst þú höggfæri í,
 þá mun hvargi til missa þinn geir.

Þegar bylvindur blæs, skaltu breiða út voð,
 þó að brimöldur freyði' yfir unn
geysa lofa þú lung, sá, sem lægir, er gauð,
 þó að löðranda stefni' upp á grunn.

Mær er friðhelg á fold, má ei flytjast á skeið;
 þar hún Freyja sjálf holl mundi ei;
brosfar valið á víf, sem er voðaleg gröf;
 snara veiðin er lokkur á mey.

Drekkur Valfaðir vín; njóttu veiganna frjáls;
þó má vitinu týna aldrei;
þóttú rasir á grund, máttu reisa þig skjótt,
en hún Rán sleppir fótunum ei.

Beri' að kaupdrengja knör, má hann krefja þig liðs,
en þó kaupi hann stundum sjer grið:
marar þengill ert þú, vöruþræll einn er hann;
stálið þitt gullið hans jafnast við.

Skipta herfangi' í hlut meðal hermanna skal,
og við hlutfall sitt uni svo hver,
nema sægramur snjall, hann á sjálfur ei hlut,
því að sigurinn helgar hann sjer.

Sjáist víkingaskeið, bregðið vopnum á lopt,
sýnið viðnámið rjúkandi tryllt;
ef þú hopar um fet, skaltu hrakinn frá oss;
lög vor hljóða svo; gjör sem þú vilt!

Sár er víkingamark, og til virðingar er
þeim, sem veitt er á enni og brjóst;
lát það blæða eitt dægur og bind ei um fyrr,
ella bíður þú hrakyrða þjóst».

Þannig setti hann lög og hans sæmdir og frægð
víða svifu' yfir fjarlæga storð;
hvergi maka sinn fann hann um marvallar-geim,
og hans menn báru hreystinnar orð.

Hátt í stafni hann stóð viður stýrið og leit

einatt stúrinn á freyðanda sjá:
»geysi-djúp ertu dröfn, býr í djúpi þjer ró,
því hún dafnar ei hafleti á?

Ætli Baldur mjer böl, má hann brand reiða hátt,
eg skal bíða' hans og æðrast ei hót;
nei, við bólstra hann býr, hyggur beiskur til mín,
og því bítur mig hugsýkin ljót«.

En ef hjörvajel hófst, fór hans hugur á flug,
svo sem hauksins, er vaknar við bráð;
þá varð svipurinn svás, þá varð snjallmál hans rödd,
meðan snarpa var orrustan háð.

Svo frá sigri til sigurs hann svam yfir lög,
ei hann sakaði' in helkvika gröf,
og hann Suðurlönd sá meður sælund og sker
og hann sigldi' inn í Grikkjalands höf.

Þá hann skoða fer lund með in skrautlegu hof,
er í skínanda spegla sig vog;
hve hans önd sjer þá undi, veit ástanna dís;
þjer, sem unnist! þjer vitið það og.

»Hjer eg líta má lund með in ljómandi hof,
eins og lýsa vann öldungur fyrr;
það var hingað, sem *hún* átti' að halda með oss,
en in harðlynda sat eptir kyrr.

Býr ei yndi og ást í svo ylsælum dal?
er ei inndælt við hvolfsúlna göng?

því svo blítt ómar Unn líkt og unnustu hjal,
og um ást kveður smáfugla þröng.

Hvar er brúður mín blíð? hefur brigðlynd oss gleymt
sínum buðlungi örvasa hjá?
Ó, eg get eigi gleymt, og eg gæfi mitt líf,
ef þig gullblíða mætti eg sjá!

Um inn svalkalda sæ hef eg sveimað þrjú ár
og mátt sakna þín, ættjarðarval!
Gnæfa fjöll þín sem fyrr? mundi fagurgræn hlíð
enn í feðranna ylblíða dal?

Mun sú lind fagurfrjó, er á föður míns haug
eitt sinn forðum eg græddi við jörð?
Hver mun vatna' hana vel? gefðu vökva þinn, fold!
og þú, vorhiminn! döggvaðu svörð.

Hví skal lengur um lög beita lúinni skeið,
myrða lýði og skattgilda þjóð?
Nú er frægð unnin full, því hið fránleita gull
ei með fjepúkum dreg eg í sjóð.

Viti horfir á hún beint í hánorður-átt,
þar sem helg bíða ættmanna lönd;
meður blíðhimins blæ vil eg bruna' yfir sæ,
unz mjer brosir in norræna strönd«.

XVI.

# Friðþjófur og Björn.

---

FRIÐÞJÓFUR:

»Leiðist mjer, Björn! út við brimóðan sjá
búa við gnauðandi ólæti Ránar;
norðurheims tindar og fjallshlíðir fránar
fylla mig söknuði' og ástarþrá.
Sæll er sá, land hans sem útskúfar eigi,
enginn sem hrekur frá feðranna gröf.
Oflengi — oflengi eg hef með fleyi
útlægur borizt um sollin höf«.

BJÖRN:

»Særinn er góður og sízt má hann lasta,
á sænum æ frelsið við gleði bjó;
þar á ei heima in þreklausa ró,
þrótturinn lifnar við hádunur rasta;
gjörumst eg aldinn á gróandi storð,
græ eg þar fastur, sem reyrleggur freðinn;
enn skal því drekka og berjast um borð,
búa skal enn með oss sorgvana gleðin».

FRIÐÞJÓFUR:

»Nú hefur ísinn þó elt oss á land,
umhverfis spennir oss helfreðin alda;
una hjer vil eg ei vetrinum kalda,
vogur þars glymur við klett og sand;
jóla eg enn vil í Noregi njóta,

niflung þann gista, er rændi oss mey,
horfa á, hve gulllokkar hrynjandi fljóta,
heyra það málið, er gleymum vjer ei».

BJÖRN:

»Skil eg það: Hringur á heiptum skal kenna,
hefndina víkingar reka skjótt;
höllin skal mölvuð um miðja nótt,
mærin oss fylgja, en karlinn brenna;
ellegar hyggstu að hermanna sið,
hólmgöngu sæma þann gylfa lúinn?
ellegar hasla' honum orrustu-svið
á ísinum? Jeg er í hvatvetna búinn«.

FRIÐÞJÓFUR:

»Minnst ei á brennu nje bræelda hríð,
hjeðan með friði til grams vil eg stefna;
syndanna goðin á sjálfum mjer hefna,
saklaus er Hringur og drottning blíð;
hjeðan af fátt oss á foldu mun gleðja;
fegurstu ástmey ið hinnsta sinn
sjá vil eg glaður og syrgjandi kveðja;
sól þegar hækkar, eg aptur þig finn».

BJÖRN:

»Heyrið á firn mikil! Hve viltu lengi
harmþrútinn gráta þau brúðarsvik?
jörðin því verr er af konum kvik,
kveðji þig ein, er það skaði þjer engi.
Viltu', að eg sæki frá suðrænni grund,
sökkhlaðinn byrðing af fjörugum snótum,
rósfríðum, hýrum og ljúfum í lund:
látum svo skipt eða' í bróðerni njótum?»

FRIÐÞJÓFUR:

»Lundglaði Björn! þú átt lyndi með Frey,
ljónsnar til víga og hvatur til ráða,
Óðin og Þrumutý þekkirðu báða,
þekkir ei ástanna himnesku mey;
deila við goðin er heimska', en ei hreysti;
hræzt þú að styggja' ina eilífu dís;
goðum og mönnum inn ginnhelgi neisti
gjósa mun eitt sinn sem logi yfir ís.

BJÖRN:

»Ferðast ei aleinn, þín för mætti lengjast«.

FRIÐÞJÓFUR:

»Förunaut á eg, inn bitra flein«.

BJÖRN:

»Mundu hann Hagbarð, er hjekk á grein!«

FRIÐÞJÓFUR:

»Hver, sem ei ver sig, á skilið að hengjast«.

BJÖRN:

»Fallir þú, hlýri! eg hefni þín vel;
helörnu merktur skal Friðþjófs bani«.

FRIÐÞJÓFUR:

Get eg þess, Björn! að ei gjallandi hani
gali þeim lengur enn mjer; far vel!

---

## XVII.
# Friðþjófur kemur til Hrings konungs.

—

Með hetjum sínum Hringur í höllu drakk um jól;
hjá gömlum undi gylfa in gullna faldasól.
Sem vor og kaldur vetur þau voru í glæstum rann,
og hún var væna vorið, en veturinn kaldi hann.

Þá gengur garpur aldinn á gólfið hallar inn;
frá hvirfli niðu'r á hæla hann huldi loðið skinn;
á hækju fram hann hallast og harla lotinn gekk,
en var þó höfði hærri þar hverjum jöfurs rekk.

Með sveinum tók hann sæti í salnum fram við dyr
(þars snauðir enn sjer una og eigu bekk (sem fyr);
að karli hirðmenn hlógu, svo háfum glumdi' í sal,
og bentu' á bjálfann loðna, sem bognum skýldi hal.

En ötul augu brenna þeir undan hetti sjá;
einn hirðmann halur grípur og hátt á lopt upp brá,
og vatt á ýmsa enda í annarri hendi sjer;
þá þögnuðu þengilssveinar — og þagnað hefðum vjer.

Þá kallar buðlung bistur: »hver brýtur hallar frið?
kom innar, aldni gestur! og eigumst ræður við,
og seg oss, hvað þú heitir, og hvaðan að þig ber,
og hvar þú heima eigir, og hver þinn starfi er!«

»Þótt margs þú frjettir, fylkir! þig fræða' eg gjarna vil,
en nafn mitt á eg aleinn og engum segi til;
eg borinn er á Angri, og átti' í Sulti bú,
og gisti' í gær hjá Úlfi; til gylfa ræðst eg nú.

Á dýrum dreka forðum eg drafnar risti slóð;
með stríðum stormavængjum hann steðja kunni' of flóð;
nú kúrir fuglinn frosinn í frerum inn við lönd,
og ellin bak mitt beygir; — nú brenni' eg salt við strönd.

Mig fýsti konung finna, því fræg þín spekin er,
en hirðmenn þínir hlógu og hentu gys að mjer;
þá greip eg fól eitt, fylkir! og frækin sýndi tök;
það var í góðu gamni, þú gefu'r það ei að sök«.

Þá mælti vísi vitur: »Þú vandar sniðug orð;
inn hruma ber að heiðra; við hilmis set þig borð;
en kufli skaltu kasta, og kenna rjett þig lát;
ei hemst í hjúpi gleðin; mín hirð eg vil sje kát«.

Og óðar fellur feldur af fríðri heilaslóð;
á gólfi glæsilegur þar gumi ungur stóð;
frá björtum brúnatindi um breiðan herðastall
á gildum garpi hárið í gullnum öldum svall.

Á bláan kyrtil blikar, en beltið kappans var
úr svásum silfurspöngum; mót sveinum glóðu þar
í hópum haga-dýrin, sem hlupu allt í kring,
en aldrei fundu endann, á ítrum mittishring.

Og handargullið góða nam glita jöfurs höll,

og hjörinn heljar-þunna við hlið bar kempan snjöll,
og atalt augum renndi' hann til öðlings hugum-stór
og líktist bæði Baldri og brúnahvössum Þór.

Þá drottning ljúf hann lítur, hún litum óðar brá,
sem norður-loga-leiptur um ljósan bliki snjá;
svo bifðist snótar barmur sem blómsturliljur tvær,
sem vaxa niðu'r í vatni, er vindum tryllist sær.

Þá hvein í hvellum lúðri, og hljóðir runnar geirs
þá urðu á augabragði, og inn kom göltur Freys;
hann kraup á fáðu fati með fagran hornasveig,
en buðlungur frá borðum að bragði upp þá steig.

Hann tók á galtar trýni, og talaði snjallt og hátt:
»eg heiti að fella Friðþjóf við frækinn hjörva-slátt,
og hræðast ei, þótt halur sje harla þróttarstór;
svo fremi fullting veiti mjer Freyr og Ása-Þór!«

Þá glottir hoskur gestur, á gólfið fram hann stökk;
svo grimmdist garpsins hugur, að gneisti' úr auga hrökk;
í borðið sló hann brandi, svo buldi' í fylkis sal,
og upp frá eikibekkjum spratt öðlings drengjaval.

»Þess heit eg, hilmir! strengi«, svo hjörva- mælti -grjer,
»að verja Friðþjóf frækna, því frændi minn sá er,
og hvergi undan hopa, þótt hundrað verði um einn;
svo dugi heilladísir og dávænn mistilteinn«!

En Hringur hló og mælti: »þú harla djarfur ert, —
en hjer í höllu vorri má hver einn tala bert;

þú, drottning! dýrshorn rjettu að dreng með vín þitt bezt;
með veigum vil eg tryggja oss vetrarsetugest«.

Þá skenkti skjöldungs beðja á skrautlegt uxahorn
með ríkar silfurrósir og rúnamálin forn
í kring um styrkan stikil og stæltan silfurfót;
á barm þann bikar fylla in blíða mundi snót.

Í barm sjer horfði brúður, er bikar rjetta vann,
og höndin smáa hristist, svo horninu' út úr rann;
svo brunnu dökkvir dropar á drósar hvítri mund,
sem leiptur lilju rjóði um ljósa aptanstund.

Og hýrt hann tók við horni af hilmis glæstri frú, —
en trauðla tæma myndu það tveir, sem gjörast nú, —
en Friðþjófur inn frækni þá fögru gullinveig
til sæmdar dýrri drottning nam drekka' í einum teig.

Og greppur gígju tekur, hann gylfa sat við borð,
um ástir óð hann syngur frá ítri Noregs-storð,
um Hagbarð sætt og Signý og Sjafnar yndi' og harm;
um hjörtun drengjum hitnar, þótt hringir stæltu barm.

Hann söng um sali tíva, þars sigur- bíða -laun,
um hreysti fornra feðra og frækna sverðaraun;
þá greip hver hönd að hjalti, þá hvesstist sjerhver brá,
og ótt um bekk var borin in bjarta hornalá.

Og fastan drengir drukku í döglings höllu þá
(það jólaminnið mæra sveif margan hraustan á),
unz hirð til hvíldar gengur; þá hætti sumbl og skraf,
en aldinn öðling Hringur hjá Ingibjörgu svaf.

---

## XVIII.
# Ísförin.

Með drottningu vísi til veizlu fer;
á vatninu' er ísinn háll sem gler.

»Við ísinum gættu þín«, gestur kvað,
»því grípa kann við þjer nákalt bað«.

»Sú ísraun«, kvað jöfur, »ei hræðir Hring,
en huglausum ræð eg að fara í kring».

En hetjan starir á hrannar-hvel,
og herðir skauta' að iljum vel.

Með fagran sleða snýr fákur á braut,
af fjörvi drambar og hart fram þaut.

»Send þig of ísinn« kvað sjóli, »þvert,
og sýn nú, hvort Sleipnis jóð þú sjert«.

Hann þaut, sem vindur þjóti of láð;
ei þýðist Hringur snótar ráð.

En Gestur á skautum svo skjótur er,
hann skjöldungs vagn í kring um fer.

Hann renndi sjer margan rúnakrók,
svo ræsis frú yfir nafn sitt ók.

Þau fljúga svo hratt of frera skán;
und fótum þeim glottir helköld Rán.

Og sundur þýðir hún svella þök;
þau sjóli' og drottning fjellu' í vök.

Af ótta drottning fölna fer,
en fljótara leiptri Gest að ber.

Í ísinn stingur hann fæti fast,
í faxið hesti þrífur hvasst.

Svo hörð voru kappans heljartök,
að hesti' og kerru' hann rykkti' úr vök.

»Ei fræknari maður«, fylkir tjer,
»hann Friðþjófu'r sterki sjálfur er«.

Þau hurfu aptur á hilmis garð,
með Hringi Gestur til sumars varð.

## XIX.
# Freistnin.

Vorið kemur, kvaka fuglar, kvistir grænka, sunna hlær,
ísinn þyðnar, elfur danza ofan, þar til dunar sær;
rósin gegn um reifa brosir rjóð og hýr sem Freyju kinn;
brjóstum manna vorið vekur vonarhlýjan unað sinn.

Þá til veiða hyggur Hríngur, honum fylgja drotting skal;
konungs allar kempur tygjast, kveður hátt í glæstum sal;
bogar glymja, hremsur hringla, hófum sporna fákar grund,
brúnafyllum valir verpa volegum með heipt í lund.

Veiðiflokks í fararbroddi fögur unir drottning sjer;
þaðan augum fljótast forða, Friðþjófur! nú ráð er þjer!
Há sem Göndul, hýr sem Freyja, hvítum fáki sat hún á;
bláfjallaðar blöktu fjaðrar brúðar djásni rauðu frá.

Líttu' ei inn í logann brúna, lokka gullna horfðu' ei á,
gæt þín, mjótt er mitti svanna, mjúk eru brjóstin, hvelfd og há;
varast rós og veika lilju, vöngum á er skipta sjer,
hlustaðu' ei á málið milda, mýkra' enn aptanblær það er.

Fylkis sveit til brautar búin bregður ólmum fáki á skeið;
horn við kveða, haukar beina hátt mót Óðni vængjareið;

merkurdýrin felmtruð flýja, forða sjer um dimman skóg;
valkyrjan með Óðins-eldi eltir þau um hæð og mó.

Aldinn Hringur ei má fylgja, undan veiðiskarann ber;
Friðþjófur hjá frægum unir fylki einn og þögull er.
Upp í hljóðu hyggjusetri harmastafir rísa skjótt;
undan þeim hann ei má flýja, angri sleginn mælir hljótt:

»Hví í greipar grimmum voða gekk eg braut frá víðum sæ
þar sem harmar þrífast ei, en þjóta braut með himinblæ,
hyggju-þungan þar sem víking þraut í Hildar kveður danz,
þar sem hrelld má hyggjan flýja hjörva röðulbjartan glanz?

Hjer er öllu hinn veg snúið, harma-vængjum læsir þrá
mjer um höfuð, rammar raunir rænulaus eg stari á.
Baldurshagi hug minn glepur, helgan vann mjer svanni eið;
þó hefur hún ei heit sín rofið, hörmum valda goðin reið.

Hatast þau við hauðursbúa, hlægir þau vort gleðibann,
rósknappi þau rændu mínum, rjettu köldum vetri hann.
Hvað mun vetur hirða' um rósir? hann kann sízt að
meta þær;
meður klaka' og köldum gusti knapp og blöð og legg
hann slær«.
Kvað hann svo, en kappar voru komnir inn í regin-dal
milli hengi-hamra tveggja, huldu bjarkir stjörnusal.
Hringur steig af hesti sínum: »hef eg aldrei fegra lund
fyrri sjeð, mig sækir mæði, sofa vil eg litla stund«.

Svarar hinn: »ei sofna skaltu, sæng er hörð á eyðidal«
vera má þig værðin svíki, vísi! snúum heim í sal«.

»Svefninn kemur, sízt er varir, svo sem annar goðaher»,
aptur svarar aldinn Hringur »unna muntu hvíldar mjer».

Friðþjófur sinn feld þá breiddi foldar yfir kalda laut;
hvítar hærur Hringur síðan hnegja vann í kappans skaut,
svaf svo vært sem vaskur halur vígamóður skildi á
eptir blóðugt orraveður eða barnið móður hjá.

En er fastast sjóli sefur, svartur kvakar fugl á meið:
»Friðþjófur inn frækni! skunda, fylki ellihniginn deyð!
eigðu sjálfur dýra drottning, drósin gaf þjer koss og mund;
engi þig hjer augum lítur, engi rís úr dauðans blund«.

Kappinn hlústar. Heyr! þá syngur hvítur fugl á grænum
kvist:
»þótt ei menn þig megi líta, mun þó Óðinn sjá þig víst;
viltu sofinn vega öldung — verjulausum níðast á?
enga heill af illu verki eða sæmdir muntu fá«!

Fuglar þagna, fleinabjótur fránan hjör úr skeiðum dró;
hryllti við og honum fleygði hendi frá í dimman skóg.
Fuglinn blakka beint á Náströnd báru þegar vængjatól,
en sem hörpu helgur rómur hinn sjer lyptir móti sól.

Hringur vaknar: »Vel er sofið, væran«, kvað hann
»hlaut eg blund;
vel er oss á vengi auðu' er vakir þú með hjör við mund;
hjör eg sagði — heyrðu, Gestur! hvar er síðunautur þinn?
hvað hefur undur ykkur skilið? — efni þess eg hvergi finn«.

»Hirði' eg lítt það«, hetjan svarar »hjörvagnægð á þessi storð;
vittu, hvöss er tyrfingstunga, talar engi friðarorð;
myrkraandar eggjar byggja, illum Niflheim komnir frá,
svefni ei nje silfurhærum svífast þeir að níðast á.

»Eigi svaf eg«, anzar Hríngur, »eg þín freista vildi meir,
óreyndum því ýtar spakir aldrei treysta hal nje geir;
Friðþjófur inn frækni ertu, fullvel kenna þig eg vann,
þegar Gestur geði slunginn gylfa forðum kom í rann.

Hví barst þú til hallar vorrar heiti leynt und kufli grá?
var ei hitt, þú vildir stela vífi gömlum sjóla frá?
Drengskapur und dularnafni dylst ei svo með glaðri öld;
svipinn ber hann himinheiðan, hreystibragð og fagran skjöld.
Fregnin sagði', að Friðþjóf nefndu fjanda bæði menn og goð,
hausa klyfi, hofin brenndi, hæddi sjerhver friðarboð;
bjóst eg við, að berserk ramman bæri skjótt að vorri strönd
herskjöld með, en húsgangstötra hann kom með og staf í hönd.
Ver þó eigi undirleitur, æsku líka man eg tíð;
styrjöld, styrjöld er vor æfi; æskan er in fyrsta hríð;
skorðast þarf hún skjalda milli, skapið unz ið tryllta þver;
nú hef eg reynt þig, reiði sefað, ríkir sátt í huga mjer.

Orðinn er eg ellimóður, orpinn bíður haugurinn,
þiggja skaltu þá mitt ríki, þar á ofan svanna minn.
Þar til skaltu Hrings í höllu hýrast oss í sonar stað;
vopnlaus skal oss verja halur, — verði úrslit mála það«.

Kappinn anzar Hringi hljóður: »heita þjófur vil eg ei,
seg mjer, Hringur! hver mjer aptra hefði mátt að taka mey?
vænsta brúði vildi' eg líta, vísi aldni! hinnsta sinn;
heimskur maður helzt til vakti' eg harminn sollna aptur
minn.

Með þjer eigi, buðlungi! bíða þýtt eg lengur höllu í;
eg er á flótta, gremin goða grimmdar-sollna veldur því.
Baldur meður bjarta lokka, bragna kind er heitast ann,
á mjer einum hefur hatur, hans mjer einum reiði brann.

Brenndi' eg vje hans, vargur heiti' eg vjeum í, og hvar
sem er
ungu börnin Friðþjóf fælast, fylgir voðasvipur mjer;
látið hef eg lönd og óðul, látið vini fje og grið;
sekt mín bíður síðan heima, sekt mig hvergi skilur við.

Ei um græna grundu vil eg griða lengur biðja mjer;
jörðin brennur undir iljum; eikin hvergi skugga ljer;
þegar unga Ingibjörgu aldinn jöfur frá mjer hreif,
yfir sólskin æfi minnar ógnum þrunginn harmur sveif.

Því er mál til strandar stefna, stinnum dreka hrinda á flot;
sá skal baða bringu svarta brimóð gegnum mararlot;
hans skal vangi veður stæla, voðaleg þó grenji Hrönn,
meðan stjarnan mar um lýsir, meðan alda krýnist fönn.

Heyra vil eg veðralæti, voðagný og þrumubrest,
þegar um mig þjóta reiðir, þá minn kyrrist hugur bezt. —
Skildir bresta, skotin dynja, skjöldung aldrei hljes um braut;
hlægir mig til Herjans sala hverfa loks frá sekt og þraut«.

## XX.

# Dauði Hrings konungs.

---

Skinfaxi skundar
skínandi um síðir
sunnan úr blíðheimi bjartari' enn fyr;
árdegis-stundar
ilgeislar fríðir
lýsa nú höll; þá er lostið á dyr,

Hurð er upp hrundið,
hetjan inn gengur;
döggling er fölur, en drottning hans rjóð;
barmur á sprundi
bifast, en drengur
bölþrungin hefur upp skilnaðarljóð:

»Bárurnar baða
brimfoldar hestinn,
stormalinn fýsir hann steðja' yfir sund,
vota leið vaða
vill hann með gestinn
brautu frá ástmey og áanna grund.

Ingibjörg! hring þinn
hjer skaltu taka,
helgastar minjar þjer aptur eg sel.

Njóti hans enginn!
ei skal þig saka; —
aptur þú sjer mig ei fyrr enn hjá Hel!

Ei mun oss hlotnast
aptur að líta
reyk þann, er feðranna rýkur á grund;
nornirnar drottna;
nú mun in hvíta
Hrönn veita' oss griðland að helfararstund.

Leið ei til stranda,
lofðungur! svanna,
sízt þegar blástjarnan blikar svo hrein;
ske má við sanda
skírt milli hranna
skíni á víkingsins landræku bein«.

Svaraði Hringur:
»Sárt er að heyra
hetjuna æðrast sem hjartveika mey.
Hvað er nú? — syngur
Hel mjer í eyra? —
hvað þá? — sem aðrir eg fæðist og dey.

Urðar dóm flúði
engi, sem hefur
örlaganornanna fallið í bönd. —
Hjartfólgna brúði
Hringur þjer gefur;
annast þú, son minn! unz erfa skal lönd«.

»Gjarna vjer undum
glaðværri höllu;
gat eg mjer vinsæld og auðlegð og frið;
þó hef eg stundum
styrjar um völlu
stálhúfu klofið og bliknað ei við.

Geirsodd sig rista
ræsir skal feigur;
sóttdauði konungi samir ei vel.
Æfiþraut yzta
engi skal deigur
þola, því líf er ei ljettara' enn hel!»

Helrúnir síðan
Hringur sjer risti —
helrúnir Óðni um brjóst sjer og arm;
dreyrliljan fríða
dýrðlega lýsti
silfur-hár konungs um sviptraustan barm.

»Færið mjer hornið!
hinnsta sinn minni
drekk eg þjer, norræna drengskaparorð!
frjósama kornið,
friðsælt heimkynni,
farsæld og menntir eg verndaði' um storð.

Friðinum blíða
blóðugar dróttir
níðast á löngum, eg nauðugur sá.

Valkyrjan fríða,
Vígföður dóttir,
Valhallar gættir nú bendir oss á.

Hásalur ása
heilsar oss fríður —
horfin er jörðin — til ölmála þings
einherjar blása;
unaður bíður
ítur sem gullhjálmur tilkomu Hrings«.

Hönd rjettir sprundi
Hringur og kveður
harmanda Friðþjóf og vonhýran svein;
öðling þá stundi
andvarpi meður, —
önd hans nam fljúga til ljóssala hrein.

---

## XXI.

# Hringsmál.

---

Situr í haugi
höfðingi kynstór,
skjómi er við síðu,
skjöldur við arm;
gangvarinn góði
gneggjar þar inni,
gnýr viður steina
gullvörðum hóf.

Ríður inn ríki
ræsir of Bifröst,
bogna við brúar
bogar und gram;
verða nú víðar
Valhallar gættir,
sigtívar tiggja
taka í mund.

Þór er ei heima,
herjar á jötna,
Valfaðir veifar,
vín sjer hann kýs;
fljettar Freyr öxum
fylkis um enni,

blómliljur bláar
bindur í Frigg.

Bragi inn gamli
gullhörpu tekur,
ómar þá mýkri
óður enn fyrr.
Vanadís hvítum
hallar að borði
barmi og hlustar,
hitnar við blóð.

»Hvellar á hjálmum
hjalttungur kveða,
blóði sig baðar
brimsollin Rán;
styrkurinn rammi,
regin því valda,
bítur í skjaldrönd
berserkjum með.

Því var inn dýri
drottinn oss hollur,
sem fyrir fróni
friðar bar skjöld;
aflsins ins stillta
ímynd guðfögur
böndum er dýrri
blótgufu fórn.

Vitur orð velur

Valfaðir; þá hann
situr hjá Sögu,
Sökkvabekks dís.
Svo voru Hrings orð
hlæjandi bárum
mjög svipuð Mímis,
mær, hvell og djúp.

Friðsamur tryggir
Forseti griðin
sáttur við Urðar
svalkalda lind;
svo sat á dýrum
dómsteini Hringur;
blíðkaðri blóðhefnd
þjóða vann mund.

Gjöfull var gylfi;
glóanda skipti
rógmálmi rekkum
rausnarfull mund,
glöð kvaddi gáfa
gjöfula mundu;
vóx af hans vörum
veslum æ líkn.

Velkominn, vitri
Valhallar arfi!
lengi mun norræn
lofa þig drótt!

**Bragi svo hoskum**
**hildingi fagnar,**
**friðboða norna**
**neðan frá storð«.**

---

## XXII.

# Konungsvalið.

Til þings, til þings! því fregnin fer
um fold og dal
um andlát Hrings; nú aptur ber
að öðlings val.

Þá tekur bóndi brand frá vegg,
sá bjartur er;
og fingri reynir frána egg,
hún fullvel sker.

Nú leikur sjer að ljósum geir
hver lítill sveinn,
og bregða þungum brandi tveir,
ef bilar einn.

En hjálminn fægir faldalind,
unz fagur er,
og roðnar, þegar meyarmynd
í málmi sjer.

En síðast tók hann skyggðan skjöld
og skíra fór.
Þú frjálsra bænda frækin öld!
þín fremd er stór.

Við frið og styrjöld styrkur þegn
er stólpi lands,
þess blómi vex og bjargfast megn
af blóði hans.

Menn safnast skjótt við skjómagný
og skjaldabrak
til þings; in háu himinský
er hölda þak.

En Friðþjófu'r þings á steini stóð
og styrkum hjá
ið fagra' og unga fylkis jóð
með frána brá.

Með bændum kurr þá koma vann:
»Sá kóngsson er
of lítill, setja lög ei kann
nje leiða her«.

En Friðþjófu'r skyggðum skildi á
hóf skjöldungsson:
»Hjer lofðung Noregs líta má
og landsins von.

Og skoðið svein, hvort ætt hans er
ei Óðni frá;
á skildi ljett hann leikur sjer
sem lax í á.

Eg sver að verja veldi hans,

sem vera ber,
og sæma' hann vísa vænum kranz,
þá vaxinn er.

Forseti heit mitt hlustar á
og helgan eið;
ef heiti eg rýf, mjer hegna má
hans hefndin reið«.

En sveinninn ungi sat á rönd
sem sjóli stól,
og valur sitji hals á hönd
og horfi' í sól.

En loksins honum leiðast vann
því löng varð stund;
af steini ofan stökkur hann
og stóð á grund.

Þá æpti í skyndi skatna þing:
»sá skjaldarsveinn
vor öðling verði eptir Hring
og annar neinn!

En Friðþjóf jarlsnafn fáum vær
og forsjá lands,
og Ingibjörg, in bjarta, mær
sje brúður hans!«.

»Eg kýs mjer sjálfum«, kappinn tjer,
»að kjósa mey,

því konung fá eg kominn er,
en konu ei.

Nú bíða nornir bráðar mín
við Baldurslund,
sem hjeðan kveðja hal til sín
á hulinn fund.

Og yfir og undir aldameið
þær eiga bú;
því býst eg hjeðan beina leið
á brautu nú.

Því Baldur geymir beiska þrá,
inn bleiki sveinn;
hann blóm míns hjarta braut, og má
það bæta einn«.

Hann kyssir enni knapans á,
er kosning hlaut,
og reikar hljóður höldum frá
of heiðarlaut.

---

## XXIII.

# Friðþjófur á haugi föður síns.

---

»Nú kveður sólin blessuð bjarkaraðir
og bjartir geislar svífa grein frá grein;
þitt hýra auga, alda blíði faðir!
mjer endurskín í dögg sem bárurein;
nú hjúpast roða hnjúkar bláfjallaðir,
nú hríslast blóð um Baldurs fórnarstein,
nú sígur óðum hauðrið húms í kafið,
nú hnígur sól sem gullskjöldur í hafið.

Mitt æskusvið eg sjónum fyrst vil leiða,
þars sveinn eg undi fyrr með ljetta brá,
eins sætt og forðum angar blómabreiða,
á björkum kvaka sömu fuglar smá;
sem forðum dunar sær und blíðum heiða;
ó, heill sje þeim, sem aldrei þekkti sjá!
því frægð og sigri heitir hverful bára,
en hrífur oss frá stöðvum bernsku ára.

Eg man þig, fljót, sem mærum fleytir straumi!
þars móður einatt ljek eg sundi á,
og dalinn, þars í ungum ástar draumi
eg illu heilli festi hringaná,
og bjarkir, sem í Lofnar gleymsku-glaumi
eg greypti rúnum, sem að enn má sjá,

með hvelfda toppa, hvítan stofn; í skorðum
hjer hvílist allt, en eg er ei sami' og forðum.

Nei, breytt er nokkuð: bóla' á Framnes sölum
og Baldurshofi hvergi sjá eg kann;
hve blítt var fyrr í bernsku minnar dölum,
en bál og járn þeim síðan granda vann;
nú andar goðaheipt frá græði svölum,
mín grund er bölvuð, síðan hofið brann.
Þú, vegfarandi! voðann ráð er flúa,
því villidýr í helgum lundi búa.

Um mannheim veit eg sveima flærðar fjanda
inn forna Níðhögg, stiginn upp frá Hel;
því ása-ljósi girnist hann að granda,
er góðra drengja lýsir sjónarhvel;
öll níðingsverk, í sögum sem að standa,
ins svarta jötuns hefur bruggað vjel;
ef heppnast morð, ef hofs er salur brenndur,
hann hlær og klappar lof í svartar hendur.

Ó, heyr mig, Valhöll! hárri raust eg kalla,
ó, hvíti Baldur! þiggurðu' enga bót? —
Með bótum sættast menn, þá frændur falla
og fegin goðin þiggja heiðin blót;
með blíðu þú sem ávallt sigrar alla —
eg afarkostum býðst að taka' í mót,
en taktu' inn forna flekk af mínum skildi;
Friðþjófur aldrei brenna hof þitt vildi.

Mín byrði' er þung — ó, Baldur! ver ei reiður;

úr brjósti mínu taktu hryggð og þrá;
lát iðran bæta' og æfi langrar heiður
það augnablik, er slysið varð mjer á;
eg hræðist ei, þótt bresti himinn breiður,
eg bleikan dauðann þori vel að sjá,
en svipinn þinn inn saklausa og hvíta
eg, sekur maður, þori hvergi' að líta.

Minn faðir hvílir hjer, en heyrir eigi,
því hann fór þangað, hvaðan neins er von,
og gleður sig á glæstum uppheims vegi,
þars goðaveigar yngja Herjans kon.
Ó, heyr þinn mög á himins björtum teigi,
er hrópar til þín, Þorsteinn Víkingsson!
Eg kem ei fram með kynngi eða galdur,
en kenndu mjer að friða Ása-Baldur.

Á dauðinn enga tungu? — Tyrfing frægan
in trausta Hervör forðum kveða vann
úr haugi', er vakti' hún Angantý upp ægan,
en annað betra' eg kýs enn hjörinn þann;
á hólmi vann eg hjörvaforða nægan,
mitt hjarta þráir sátt við goðarann.
Ó, send mjer, faðir! svar er harm minn greiði;
ei svinnur maður þolir Baldurs reiði.

Þú þegir, faðir! heyr, hve ymur alda
með ómi blíðum, legg í hana orð;
þá vindur blæs, á væng hans seztu kalda
og vitja mín, er svífurðu' yfir storð;
í vestri röðulgeislar gliti tjalda;

ó, gef mjer tákn um fagurt sólarborð. —
Ei svar, nje tákn, er son þinn kvelur nauðin,
þú sendir, faðir! Heyrnarlaus er dauðinn!«

Nú hnígur sól, og svalur aptanvindur
nú syngur storðarbörnum vögguljóð,
og kveldroðinn við glæstar himingrindur
á gullnum hjólum ragnabrautu vóð;
of fjöll og dali flýgur leiptra sindur,
svo fold og lögur verða rautt sem blóð;
þá svífur fram á svölum himinvogum
ein svásleg undra-mynd í gullnum logum.

Vjer hauðursbúar hylling sjón þá köllum,
hún heiti fegra þó í Valhöll ber;
hún svífur niðu'r að Baldurs hrundum höllum,
og helgur lundur óðar breytast fer;
því logar tindra yfir dalnum öllum,
í einni svipan stað hún nemur sjer,
þars hofið stóð, og sjálf á sömu stundu
hún sýnist orðin hof á breiðri grundu.

Og undarlega sveipast segulsporinn,
í silfurljóma Breiðablik þar skein,
úr bláu stáli stólpi hver var skorinn,
í staðinn blótpalls sjer hann jarknastein,
og hvelfing var sem helgum öndum borin,
svo himinblá með gyllta stjörnurein,
en innst í hofi gulli' og glitvef roðin
á gylltum stólum sátu heilög goðin.

Í dyrum sjer hann svipi skapanorna
sem systurliljur dáins leiði hjá,
er muna ótal feiknastafi forna,
svo fagrar jafnt sem daprar til að sjá,
og meðan hyggur Urð á hluti orðna,
ið unga hofið Skuld nam benda á.
Og Friðþjófs auga af undran starir dofið,
en allt í einu hverfur fagra hofið.

Eg skil þig, mær, frá björtum brunni alda!
ið beina teikn minn faðir senda vann;
ið brennda hof með hofi skal eg gjalda
og háan endurreisa goðarann.
Að bæta það, sem brýtur æskan galda
með bótum fullum, gleður hoskan mann.
Úr örvænting nú hef eg hugarkættan,
inn hvíta ás nú finn eg við mig sættan.

Þjer himinstjörnur, lága nótt, sem lýsið!
nú lít eg glaður yðar blíða skraut;
og gullin norðurljós, er veg nú vísið!
á voða báls þjer áður minntuð þraut;
þú, haugur! grænka; rammar kviður! rísið
frá Ránardætrum upp frá djúpri braut.
Hjer vil eg sofna sætt á skildi' og dreyma
in svásu goð, er heiptarmálum gleyma«.

## XXIV.

# Sættin.

Nú blasti fullgjört Baldurshof; í kring um það
ei skíðgarður var orpinn eins og áður fyrr;
úr reknu járni grind var gjör, en gullnir efst
á hverri súlu húnar gnæfðu hátt í lopt,
sem hofið verði hraust og brynjað hetjulið
með gyllta hjálma, er glóa móti glaðri sól.
Í stælta hvelfing stórbjörg voru saman felld.
Sú undrasmíð var óslítandi' og lík að sjá
því undrahofi', er endur hátt að Uppsölum
með svinnum hagleik Sigtý reisti Svíaþjóð
og stælti Valhöll. Hátt í hlíð var hofið gjört,
og endurskein í fjarðarunnum fagurblám;
en umhverfis var ítur-fögur aldingrund
með dal og hól og djúp og þögul bjarkagöng,
með laufaþyt og þrastaklið og þýða ró.
Úr fögrum eiri hofsins vængjahurð var gjör;
en líkt og gullnum skildi sje of geira hvelft,
var stæltu rjáfri stólpa tvenna yfir steypt.
Úr bjargi höggvinn blótstallur þar inni stóð;
í kring um stein þann hlykkjaði sig naður einn;
með rúnum var sá ristur — það var reginskript
úr Hávamálum helgum og úr Völuspá.
Þar yfir uppi' á björtum palli Baldur stóð
und bláu hvolfi, er gylltum stjörnum glóði allt;

af skíru silfri brosti þar ið blíða goð
sem tungl í fylling heiðum nætur-himni á.

Í hofið inn nú glæstar meyjar ganga tólf,
í hvítum klæðum, tvær og tvær, með rós á kinn
og rós í hjörtum. Frammi fyrir Baldurs mynd
um vígðan stall þær stigu danz, sem sumarblær
um voga þjóti', og huldur danzi hól í kring.
Þær sungu helgan söng um leið, og sögðu frá,
hve góður Baldur var og vinsæll öllum heim,
og hve hann Helju gisti fyrir Haðar ör,
en haf og jörð og himinn grjetu. Söngvar þeir
ei líktust þeim, er megu kveða mennskir menn,
en líktust goða unaðsóm úr æðra heim;
það líktist því, ef heyrðust meyjar hjartaslög,
sem grætur horfinn ástvin sinn um auða nótt,
er þrestir kvaka' í kyrrum lund og máninn skín.
En hetjan stóð þar hjá og studdist hjör sinn við,
og horfði' á frá sjer numinn; fögur bernskutíð
í hýrum myndum sveif þá fyrir sjónir hans;
rjett eins og bjarthærð, bláeygð, hýr og saklaus börn,
hans æskuminjar brostu honum blítt á mót.
Og líkt og blóðgur skuggi veik hans víkingslíf,
og huldist nótt með orrustur og æfintýr;
á haugi þess sem blómum krýndan bautastein
þá sýnist honum sem hann líti sjálfan sig.
Og þá með söngnum fagra hóf sig hugur hans
frá jarðar lágu vengi upp í Valaskjálf,
og hatur manna' og heiptargeð hann hjaðna leit
sem klakabrynju', er brattan spennir bjargafót,
mót vorsól, — og í hetjubrjósti hans þá spratt

upp sædjúp friðarlind með fögnuði', yndi, ró;
hann þóttist finna heimsins hjarta slá við sitt,
og feginn vilja örmum vefja allan heim
sem bróður sinn, og setja helga sátt og grið
með öllum skepnum fyrir augsýn guðsins sjálfs.

Nú sjer hann goðann ganga inn í Baldurshof;
ei æskufagur eins og guðinn, heldur hár
og mikill var hann — mildin himindjúpa skein
úr augum hans, en brimhvítt skegg að belti nam,
og mikil lotning gagntók Friðþjófs hetjuhug,
og arnarmynd á hetju hjálmi hneigði sig
djúpt fyrir öldnum þul, er flutti friðar orð.
«Velkominn sonur! vænt þín lengi hef eg hjer;
ið ramma afl opt reikar yfir lönd og höf
líkt berserk þeim, er bítur hvasst í skjaldarrönd,
en áttar sig um síðir þó og hverfur heim.
Til Jötunheima jafnan fór inn sterki Þór,
en þótt hann megingjarðar bæri' og Mjölni sinn,
Útgarðaloki' er enn ei rekinn ríki frá;
ið illa sigrast ei; það afl gegn afli er.
Lík barnsins leik er gæzkan ein, ef skortir styrk;
hún er sem sólarbros um sollinn Ægis barm —
ein ókyrr mynd, sem öldur feykja til og frá,
sem vantar festu, vantar botn og vantar tryggð.
En skorti gæzku etur aflið sjálft sig upp
sem sverð í haugi; aflið lífsins ölæði' er;
en glópskan liggur æ á botni bikarsins,
og drukkinn maður vaknar opt við vondan draum.
Frá Ými jötni allur styrkur kominn er,
því trylltir fossar voru allar æðar hans,

en sinar hans úr traustum málmi myndaðar.
En allt er dautt og ófrjósamt og bert og kalt,
unz gæzka himinsins, in góða sunna, skín;
þá grænka grös, þá brosa fjöllit blóm á grund,
og eikur gnæfa útsprungnar með aldin-skraut,
og menn og dýr við móðurbrjóstin dafna vel.
Og svo er manna varið ætt, því vogir á
Alfaðir mönnum hefur lagða hluti tvo,
svo jafnast mætti mannlegt líf og þroska ná.
Þeir hlutir heita himnesk gæzka' og jarðneskt afl.
Þú veizt, að Þór er máttugur og mikill ás,
er megingjörðum girtur reiðir hamar sinn;
þú veizt, hve spakur Óðinn er við Urðarbrunn,
er sjer hann djúpt í silfurlind, og hrafnar hans
úr víðum heimi frjettir til hans flytja heim.
Þó eltust báðir þeir og blóma misstu sinn,
er Baldur góði fjell, því hann var friðarband
í Valhöll það, sem tífa sælu tryggði, eitt.
Á aski tímans fölnaði ið fríða lim,
og Níðhöggur að neðan beit í rætur hans,
og Miðgarðsormu'rinn, myrkradrekinn svarti, sló
með eitur-sporði himinhvolf, svo heimur skalf,
og Fenrisúlfu'rinn gó, en Surtur sunnan fór
úr Músspellsheimi meður eldlegt ægi-sverð.
Hvar sem þú síðan sjónum leiðir víðan heim,
þú styrjöld sjer. Í Valhöll vekur menn í þraut
Gullinkambi. Eins um jörð og undirheim
æ dreyrgar hanafjaðrar dynja hátt. En fyrr
var friður bæði í Valhöll og á víðri jörð
Hvað, sem hjer skeður, hefur skeð með goðum fyrr
á meira hátt, því mannheimur er mynd ein smá

af Valhöll, það er ljós af himni hám, sem æ
hjer speglar sig í skildi Sögu silfurgljám.
Hvert hjarta á sinn Baldur. Mannstu mæra tíð,
þá friður þjer í brjósti bjó, og lífið var
svo glatt og kyrrt sem sæludraumar söngfuglsins,
er mjúkir vindar vagga um hlýja sumarnótt
hans grænu sæng, og svæfðan kyssa blóma koll?
Í hreinu brjósti þjer þá lifði Baldur enn,
þú ásason, þú útlæg ímynd æðra heims!
Á undan barninu' eigi Baldur deyr, því Hel
í hvert sinn maður fæðist skilar friðum ás
heim aptur; en í hjarta hvers mann vex um leið
hans bróðir, Höður blindi, því ið vonda er
við fæðing ósýnt, eins og nýklakt vargajóð.
Þess hjúpur nóttin er, en hvítan skrúða ljóss
ið góða ber. En Loki slunginn læðist fram;
ins illa morðhrämm miðar hann á saklaust brjóst
ins unga Baldurs, himintífa hugljúfans.
Þá vaknar heiptin, ofsinn sprettur upp til vígs,
og hjaltavargar hvína yfir hæð og dal,
og drekar sveima yfir blóði — bólgna hrönn,
því gæzkan situr líkt og magnlaus svipur einn,
með vofum vofa köld, við bleikrar Helju hlið, —
og upp til ösku brunnið liggur Baldurshof. —
Svo er inn æðri Ásaheimur fyrirmynd
ins lægra jarðarlífs, en þetta hvorttveggja' er
Alföður helgar hugsanir; þær breytast ei.
Hvað sker og skal ske, vita Völu dularljóð;
sú kviða' er tímans vögguvísa' og drápa' um leið.
Heimskringlu örlög stíga sömu stig og hún;

hver maður heyrir sína sögu sagða þar,
og Völva spyr svo: »vituð er enn, eða hvað?«

Þú vilt fá sætt, en veiztu, hvað þú biður um?
þú ungi maður! lít þá upp og æðrast ei.
Einn fer með sættir, — fölur dauði heitir sá;
öll stundatíð er að eins dreggjar æðra lífs,
og jarðnesk æfi er afrás lífs frá Alföður;
að sættast er að svífa flekklaus aptur heim.
Þeir æsir fjellu' og eitt sinn sjálfir — sættast fyrst
í blóðgu ragnarökkri, þars á Vigriði
þeir falla meður miklum gný, en falla þó
ei óbættir, því illskan raknar aldrei við;
en ið góða úr ægi-brennu alheims rís,
og hreinna' enn áður byrjar annað betra líf.
Þótt stjörnuherinn fölni, blikni' og falli' á storð
frá svásum himni, og sökkvi jörð í sjávarhyl,
þá mun þó endurfæðast allt, og nýfædd jörð
mun blómgað hefja höfuð aptur yfir hrönn,
og nýjar stjörnur reika' um geim með regin-ljós;
um ljósa velli skal inn blíði Baldur þá
æ leiða uppyngd goð og endurborna menn,
og rúnar þær, er endur fyrst í árdaga
frá ásum hurfu, aptur munu finna þá
á Iðavelli ung og friðkeypt Herjans börn.
Ins góða helför er því að eins eldraun þess,
þess friðþæging og fæðing með til betra lífs, —
þess lífs, er flýgur þangað, sem það fyrri var
að knjám síns föður, eins og saklaust óskabarn.
Æ, allt ið bezta hinu megin haugsins býr,
ið græna Gimilshlið; en lágt og flekkað er

það allt, sem dapran byggir Dvalins-heim.
En friðþæging á einnig foldarniðja líf;
þótt hin sje æðri, er hún hennar fyrirmynd.
Hún er sem skáldsins fingraflug um hörpustreng;
in haga höndin stillir næmt og stemmir þýtt
og varsamlega', unz mundin snertir miðjan streng;
með fjörvi' og afli fornar minjar vakna þá
úr gröfum upp við gullin-strengja goðahreim.
Því skuggi himins jörðin er og jarðneskt líf
er anddyri ins æðra mikla Baldurshofs.
Menn blóta æsi; gullsöðlaðan gjarðamar
menn leiða fram, og fórna opt í heiðnum lund —
eitt regintákn svo rammt og djúpt; því blóðið er
æ morgunroði sjerhvers sáttadags á jörð.
En tákn er engi sætt, og sættir heldur ei;
hvað sjerhver brýtur, skal hver sjálfur bæta einn.
Í örmum Alföður ið dauða griðum nær,
en allt, sem lifir, sátt má finna' í sjálfu sjer.
Eg veit þá fórn, sem goðin girnast langt um meir,
en gufu grimmra blóta, — það er hjarta þíns
ið ramma hatur, það er hefndargirni þín.
Og ef þú þessar eggjar deyfir ei nje kannt
að gefa' upp sök, ei ganga skaltu' í Baldurshof!
Hver var hugsan þín, er hofið reistir þú?
Með steinum blíðka Baldur eigi má. Á jörð
sem himni friður undan friðþægingu fer.
Ef þú sáttur orðinn ert við óvin þinn
og sjálfan þig, þú sáttur ert við hvítan ás.
Um annan Baldur sögur koma' úr Suðurheim —
einn meyjarson, er sendur hingað sje á jörð
af Alföður að leysa dapra dularrún

á skjaldrönd illrar Skuldar, sem að engi gat.
Hans herópp friður var, og mannást var hans mæra sverð,
og sakleysið sem dúfa hvíldi' á hjálmi hans;
hann breytti vel, hann fyrirgaf, hann fræddi' og dó;
und fjarrum pálma' er ljósum laugað leiði hans.
En kenning hans, að sagt er, gengur dal frá dal,
er hjörtu bræðir hörð og tengir hendi hönd
og stofnar friðarríki sitt á fagri jörð.
Eg kenni' ei vel þá kenning hans, en við og við
á góðum stundum þó eg leiddi grun um slíkt;
sá grunur liggur djúpt í hjarta hvers eins manns.
Eg veit, sú fræði eitt sinn kemur og til vor
og veifar dúfuvængjum yfir vora byggð,
en þessa fold þá fáum vjer ei sjónum leitt;
of gleymda hauga vindar þjóta' í viði þá.
Þú, gæfudrýgri þjóð, er giptu til þess nóga ber
að eygja leiptur ljóma þess! þjer heilsa eg;
heill þjer, ef þokumökkur þá hver flýr, sem nú
með rökum bólstrum byrgir lífsins blíðu sól!
En þótt svo fari, fyrirlíta máttu ei
inn heiðna mann, er guðdómsskinið góðum hug
æ þráði að sjá, og aldrei sneri augum frá;
því Alfaðir er einn, en margir þjónar hans.

Þú hatar Belasyni, en hví hatar þú?
þeir vildu' ei gipta systur sína þjer, sem er
einn bóndason, en buðlungsdóttir komin er
frá Óðins syni, Semingi, og þeirra kyn
til Valhallar má rekja; von er því til þess,
að ofmetnaður vakni; veit eg, munir þú
það hending kalla', en engan kost. Af kostum ei

neinn ofmetnast; það auðnan er, sem vekur dramb;
ið bezta hlutfall manns er góðra goða gjöf.
Mun þjer ei og til frægðar þinnar finnast mjög?
en gafstu sjálfur aflið sjálfum þjer? var það
ei Þór, sem styrkti arm þinn líkt og eflda eik?
og hlær ei goða hugur bak við skjaldborg þá,
er myndar þitt ið hvelfda brjóst? og hvaðan er
sú elding, sem að ormfrán varpa augu þín?
Við vöggu þína fölvar nornir fluttu þjer
þá drápu, sem að æfibraut þín eptir gekk;
ei fremur Belasonum ber þjer hælast um.
Ef dæmirðu' annars dramb, þú dæmir sjálfs þín með. —
Þinn óvin Helgi' er fallinn.« — Fram í tók þá hinn:
»Er Helgi fallinn? hvar og nær?« — »Þú sjálfur veizt,
að meðan hofið reistir þú, hann herferð fór
til Finnlands upp. Á grýttu fjalli gamalt hof
þar lengi stóð og lýðfrægt var af goði því,
er hjet *Júmala;* Finnar forðum bljetu það.
Nú stóð það löngu síðan lukt og gæzlulaust;
en yfir dyrum þess stóð æfa-gömul mynd,
mjög forn og fáránleg, sem myndi steypast fram;
og engi þorði' að ganga nær, en gömul sögn
það orðin var, að hver, sem fyrstur vitjaði
ins forna hofs, sá fengi Júmölu að sjá.
Það frjettir Helgi, fyllist bræði' og fer af stað
til eyðibyggða upp að finna óvin þann,
og brjóta hofið. Þegar þangað kom, hann fann
þar læstar dyr og lykil ryði sleginn í.
Þá treystir hann á hurð og hristir fúinn við;
í sömu svipan hræðilegur heyrist gnýr,
því líkneskjan á konung ofan kollsteypist.

Þá sá hann Júmölu, og ljet sitt líf um leið.
Í fyrri nótt mjer fregn um hilmis fjörtjón barst.
Í sæti Bela situr Hálfdán síðan einn.
Bjóð honum sætt, en seldu goðum bræði' og hefnd.
Það blæti heimtar Baldur nú og goði hans
til merkis um, að hreinlyndur sje hugur þinn.
En synjir þú, til ónýtis er allt þitt starf
og orð mín líka.« — Inn í hofið Hálfdán gekk,
og álengdar hann stóð og starði' á óvin sinn.
En Friðþjófu'r blóðgan benjavönd frá belti dró,
og þeytti braut, en reisti rönd við helgan stall,
og gekk til fjandmanns síns og rjetti hægri hönd.
»Í deilu vorri«, mælti hann með mjúkri raust,
»er beztur drengur sá, er býður fyrri sætt«.
Þá roðnar hinn, og glófa dró af gaupnum sjer,
og saman læstust heiptum skildar hendur tvær.
Þau handsöl voru hörð og traust sem hamrabjörg.
Inn aldni goði gekk þá fram og mælti hátt
og nefndi votta: »Friðþjófur inn frækni er
um goðgá sýkn, við sektir laus, og engi má
hann framar kalla varg í vjeum«. Varð þá hljótt,
því brúðarskarti búin inn gekk Ingibjörg,
og fríðar þernur fylgdu líkt og stjörnur sól.
Með tárvot augu hneig hún höll að Hálfdáns arm,
en Hálfdán lagði' að Friðþjófs hjarta fagra snót,
og yfir blótstall Baldurs rjetti brúður hönd,
og fornvin sinn og fóstbróður hún festi sjer.



# Æfi-ágrip Tegnérs.

Esaías Tegnér er þegar orðinn alkunnur hjer á landi, einkum af kvæðinu *Axel*, sem Steingrímur Thorsteinson, hefur gefið löndum sínum í þýðingu. Þar fylgir og ágrip af æfisögu höfundarins; verð eg því bæði þess vegna, en einkum rúmsins vegna, fáorður um æfi hans.

Hann fæddist 1782 í þorpinu Kyrkerud á Vermalandi í Svíþjóð; var faðir hans þar vel metinn prestur, en báðir afar hans höfðu verið bændur; var því eðlilegt, að niðji þeirra, Tegnér, unni bændastjettinni, enda fyrirvarð hann sig eigi að kannast við ætt sína, þegar hann sjálfur var orðinn stórmenni. Hann missti tíu vetra föður sinn, og var honum komið til umboðsmanns nokkurs eða tollheimtumanns þar í grennd, svo sem skrifara. Gekk það vel, því pilturinn var næmur og glöggur, störfin óbrotin, en þessi fóstri hans valmenni. Þó þótti hollast, að Esaías hefði eigi bækur til meðferðar, ef hann átti eitthvert athugaverk að vinna. Var það einhverju sinni, að fóstri hans bað hann standa í garðshliði og varna gripum að fara inn í gerðið; gjörði hann svo, en litlu síðar kom fóstri hans þar að, og stóð þá Esaías dyggilega í sömu sporum, og las í bók, en gripunum lofaði hann að vera eins inni sem úti. I öðru sinni hafði hann margt að hugsa, og hellti bleki í staðinn fyrir skrifsand yfir skjal nokkurt. »Hvaða maður ætli verði úr þjer, drengur?« sagði fóstri hans.

»Ætla mjer takist ekki að verða tollheimtumaður,« svaraði hinn. Svo var námfýsi hans mikil, að hann las og lærði nálega allar bækur, sem hann náði í, og skildi. Hann orkti þar á ofan um hvert atvik, sem einhver áhrif hafði á hann, og lærði þannig snemma að koma laglega orðum fyrir sig í ljóðum In fyrsta vísa Tegnérs er um gæsarunga, sem hann heygði í fornmannahaugi, er hann sjálfur hafði grafið upp; hann var þá 10 eða 11 vetra. Vísan er svona:

»Lycklig du,
lille gåsunge nu!
Ingen räf, ingen korp eller kråka
dig mera skall råka«[1].

Um þessar mundir hafði hann lesið Íslendingasögurnar, og sýnir Friðþjófssaga, að hvorki hefur Homer nje nein suðræn fræði getað stolið endurminning þeirra síðar úr huga hans. Að Esaías var settur til mennta, atvikaðist þannig: Einu sinni var hann á ferð heimleiðis með fóstra sínum um kveld undir alstirndum himni. Gamli maðurinn tók þá að útlista guðs dásemdir fyrir honum, en kom þar ekki að tómum kofum, og varð forviða á fróðleik og skarpleik sveinsins. Nokkru síðar kallar hann á Tegnér og segir: »Þú getur nú ekki lært meira hjá mjer, enn komið er, enda segir mjer svo hugur um, að þjer muni annað betra ætlað. En þótt svo sje, þá gleymdu aldrei að þakka gjafaranum allra góðra hluta«. Síðan fór Tegnér til annars manns,

---

1) Gott átt þú,
gæsarungi litli nú!
engi krummi nje kráka nje refur
klær í þig grefur.

þar sem annar eldri bræðra hans var barnakennari, og hóf nám sitt með dæmafárri ástundan og skerpu; skömmu síðar varð þessi bróðir hans embættismaður, og fór hann þá til hins bróðurins, er var kennari hjá ágætum ríkismanni, er Myhrmann hjet, og síðar varð tengdafaðir skáldsins. Hjer fjekk hann fast hæli upp frá því, unz hann varð útlærður frá háskólanum í Lundi árið 1802.

Árið eptir varð hann háskólakennari, tvítugur að aldri. Því embætti hjelt hann, þangað til árið 1824, að hann var kjörinn biskup í *Vexiö*. Til ársins 1812 kenndi hann listafræði (Æsthetik), en þá varð hann *professor* í grísku. Hann þótti ætíð inn ágætasti, fróðlegasti og skemmtilegasti kennari, og mátti segja, að inir fjörugu, ungu Svíar sæu varla fyrir honum sólina; svo miklar mætur höfðu þeir á honum; enda ljetu honum þessi kennarastörf ágætlega vel, er hann var ið dýrðlegasta skáld, og kunnugri og leiknari í grískum fræðum enn nálega allir aðrir samtíða menn hans á norðurlöndum. Fyrirlestrar hans þóttu jafn-fagrir og fjörugir, sem þeir voru ljósir, og mælska hans og málsnilld verður varla oflofuð, og inar svo nefndu skólaræður (skol-tal) Tegnérs eru án efa ið ágætasta, sem nokkurn tíma hefur samið verið samkynja. Ræða sú, er hann flutti 1824 í Lundi, þá er hann kvaddi lærisveina sína þar, þykir einhverjar fegurstar minjar mælsku hans. Er þar yfirlit yfir skáldskap allra höfuð-þjóða og samanburður á norrænum, austrænum og suðrænum, fornum og nýjum anda og formi, svo fagur og skarpur, að því mun óhætt að fylgja að svo komnu. Á þessu tímabili orti Tegnér

flest kvæði sín, t. a. m.: *»hersöng Skáneyinga,«* kvæðið *»Solen«* og þjóðsönginn *»Svea«*, er gjörðu höfundinn þjóðkunnan; sömuleiðis in þrjú stærri ljóðmæli hans: *»Nattvardsbarnen«*, *»Axel«* og *»Friðþjófssögu«*, ið mesta og frægasta rit hans. Ekkert skáld Svía hefur orðið jafnþjóðlegt sem Tegnér; kemur það bæði af því, að hann velur svo vel yrkisefni sín, og svo hitt, að kvæðin eru jafnmergjuð, sem þau eru fögur, smellin og fimlega ort; hugmyndir hans grípa mann eins og rafurleiptur; svo snögglega koma þær; svo berar, hvassar og findnar eru þær.

Eptir að skáldið var orðinn biskup, orti hann að tiltölu minna, bæði sakir kirkjulegra starfa, er hann var árvakur og samvizkusamur embættismaður, og einkum sakir meinlætis þess, er þjáði hann síðara hluta æfi hans, og lagðist þungt á geðsmuni hans, og hratt inum fagra anda úr jafnvægi með þungu hugstríði og stundum fásinnu; þótti því vinum hans, sem ský drægi frá sólu, er afbráði fyrir honum, og orti hann þá enn opt, helzt tækifærisljóð til ástvina sinna, sem fylla stórt bindi; svo mörg eru þau, og öll ágæt. Þó fór embættisstjórn hans prýðilega úr hendi; hann las guðfræði af mesta kappi, eptir að hann var orðinn biskup, því hann kvaðst eigi kunna við, að prestar sínir rækju sig í vörðurnar, en embættispróf í þeirri grein hafði hann eigi tekið; hann var og stjórnsamur, og var því sífellt önnum kafinn. Svo víðfrægur var Tegnér orðinn, að eitt sinn, er biskupssetur hans brann, komu gjafasamskot handa honum óbeðið rakleiðis sunnan úr Egyptalandi, auk heldur frá öðrum löndum, sem nær liggja. Tegnér þjáðist ákaflega in síðustu æfi-ár sín, þangað til um miðnætti 2.

dag nóvembermán. 1846; þá vatt andi skáldsins liðlega af sjer hlekkina, og var sem andlitið brosti í dauðanum. Rjett fyrir andlát sitt sagði hann opt, þegar hann sá geisla haustsólarinnar, þessi orð: »*Jag lyfter mina händer upp till Guds berg och hus*«. Það voru in síðustu sólarljóð hans. Bændur báru hann til grafar, og var það jafn-snemma, að kistan var látin síga niður í gröfina, og sólin gekk undir, og þótti Svíum bæði fagurt og sviplegt, er sólin fylgdi skáldi þeirra og hvarf jafnsnemma. Tegnér var vel kvæntur og átti mörg börn, og öll mannvænleg; einn tengdasonur hans, skáldið *Böttiger*, hefur ritað æfisögu hans, undur fagurlega, en *Geijer* samdi dýrðlega minningarræðu eptir hann; líkneski er og steypt úr málmi eptir boði konungs og þjóðar, og stendur í Lundi; en ágætastan varða hefur hann sjálfur reist sjer í snilldarljóðum þeim, er æ munu standa »óbrotgjörn í bragar túni«. Síðasta kvæði Tegnérs er kveðja til hörpu hans. Brot úr því á íslenzku læt jeg enda þessar línur:

*Þá er nú mál að hætta' og hvíla sig;*
*þú harpan mín! nú vil eg kveðja þig;*
*minn harmur löngum fögur ljóð þín flýði,*
*sem forðum raunir Sáls, í lífsins stríði;*
*þú hresstir margt eitt hjarta betra' enn mitt;*
*en hættum nú! því samvistin er stytt.*

*Eg kvað um Friðþjóf, kvað um Svíajörðu,*
*eg kvað um guð og menn og lönd og stað;*
*eg naut mín aldrei, nema þá eg kvað —*
*en áttum skiptu amaveðrin hörðu,*

*er ýmist gljúpa hjartað þyrnar mörðu*
*eða lækning gaf því liljublað.*
*Og loksins finnst mjer leika á því vafi,*
*hvort lífið glatt eða hryggt mig optar hafi.*

*— — Sú kemur stund, er upp af moldum mínum*
*með mærri hörpu ungur Bragi rís,*
*sem tekur við með helgum hróðri sínum,*
*þars hætta forðum varð mín ljóðadís,*
*og kveðu'r um drengskap, hreysti' og hetjuanda*
*og heilög fósturóðul Norðurlanda.*

*— — Þú himinborna sál af minni sál!*
*þú söngdís — hafin yfir stund og tál!*
*æ farðu vel! — þjer um fram allt eg unni;*
*þú endurnærðir mig á lífsins brunni —*
*þú varst mjer allt. — Við dauðans dimma grind*
*mjer dýrðleg enn þín brosir guðdómsmynd.*

---

# Skýringar.

## GOÐFRÆÐISLEG HEITI.

Alfaðir, faðir goða og manna; Óðinn.
Álfheimar, bústaður Freys.
Ása-Baldur = Baldur.
Ásheimar eða Ásaheimur, Ásgarður, bústaður ása.
Ása-Þór = Þór.
Baldur, in bezti ása; hann er kallaður *inn hvíti ás* og *inn bjarti ás*, o. s. frv.
Bifröst, brú milli himins og jarðar (regnboginn).
Blóðughadda, dóttir Ægis.
Bragi, skáld ása.
Breiðablik, bústaður Baldurs.
Dröfn, dóttir Ægis.
Elivogar, eiturár eða eiturstraumar í Ginnungagapi. Orðið *eitur* í þessu sambandi virðist vera sama orð og *αἰθήρ* eða *aether*, ið þynnsta og tærasta lopt, eldlopt (vindblá, ljósvaki).
Fenrisúlfur (eða Vonargandur), afkvæmi Loka; hann var bundinn af ásum.
Forseti, son Baldurs, dómari ása.
Fólkvangur, bústaður Freyju.
Frigg, kona Óðins.
Freyja, ástargyðjan.
Freyr, einn ása; hann ræður ári.
Gefjon, ásynja; »hún er mær og henni þjóna þær, er meyjar andast«.
Gerður, kona Freys.
Gimill, bústaður Alföður og góðra manna eptir ragnarökkur.
Glitnir, bústaður Forseta.
Gullinkambi, hani, er vekur einherja.
Göndul, valkyrja.

Hár = Óðinn.
Hel eða Helja, dóttir Loka; hún ræður fyrir undirheimum.
Herjan = Óðinn.
Hildur, valkyrja.
Hljer = Ægir.
Hræsvelgur, jötunn; hann ræður vindum.
Höður, inn blindi ás, bróðir og bani Baldurs.
Iðavöllur; hann stendur í miðjum Ásgarði; þar mætast æsir eptir ragnarökkur.
Iðunn, kona Braga.
Lofn, ásynja; hún er elskendum góð til áheita.
Loki, inn illi ás, er vildi spilla öllu með ásum.
Miðgarðsormur (eða Jórmungandur), afkvæmi Loka; hann kringir jörð alla.
Mímir, spekingur mikill; hann á Mímisbrunn, er spekt og mannvit er í fólgið.
Mímisbrunnur; hann er undir þeirri rót Yggdrasils, er til Hrímþursa horfir, þar sem forðum var Ginnungagap.
Mjölnir, hamar Þórs.
Múspellsheimur, inn heiti frumheimur fyrir sunnan Ginnungagap.
Múspellssynir, þegnar og hermenn Surts; þeir eyða heiminn í ragnarökkri.
Óðinn, inn æðsti ás.
Óður, maður Freyju.
Nanna, kona Baldurs.
Náströnd, bústaður vondra manna eptir ragnarökkur.
Niflheimur, inn kaldi frumheimur fyrir norðan Ginnungagap; þar ríkir Hel; »þangað fara sóttdauðir menn og ellidauðir«.
Níðhöggur, ormur; hann nagar neðan þá rót Yggdrasils, er stendur yfir Niflheimi, og eptir ragnarökkur kvelur hann vonda menn í Hvergelmi. Hjer er hann talinn jötunn.
Rán, kona Ægis.
Saga, sögugyðja.
Sigtýr = Óðinn.

Sjöfn, ásynja; »hún snýr hugum manna til ásta, karla og kvenna«.
Skinfaxi, hestur sá, er dregur kerru dagsins.
Skuld, ein af örlaganornunum.
Sleipnir, inn áttfætti hestur Óðins.
Surtur, ráðandi Múspellsheims.
Sökkvabekkur, bústaður Sögu.
Unnur, dóttir Ægis.
Urðarbrunnur, inn helgi brunnur, þar sem goðin eigu dómstað sinn; hann er undir þeirri rót Yggdrasils, sem á himni stendur; við hann byggja nornirnar Urður, Verðandi og Skuld.
Urður, ein örlaganornin.
Útgarðaloki, konungur í Jötunheimum.
Valaskjálf, bústaður á himni; sbr. Valhöll.
Valfaðir = Óðinn.
Valhöll, bústaður Óðins og annara goða; þar eru og einherjar, eða þeir, er í val falla.
Viðar, inn þögli ás.
Vigriður, völlur, sem á verður barizt í ragnarökkri; hann er 100 rasta.
Vingólf, bústaður ása og einherja; sbr. Valhöll.
Vígfaðir = Óðinn.
Vör, ásynja; »hún hlýðir á eiða manna«.
Yggdrasill, inn mikli askur, er merkir heiminn.
Ýmir, jötunn; af honum skópu Börssynir jörðina.
Þór, inn sterkasti ása; þrumugoð.
Þrumu-Þór = Þór.
Ægir, sjávargoðið.

---

# KENNINGAR.

**Mannkenningar:**
brandareynir,
darrabendir,
fleinabrjótur,
geirarunnur,
hjörvagrjer,
randaskelfir,
stálarunnur,
vargfæðandi.

**Kvennkenningar:**
baugabrú,
faldafreyja,
faldalind,
faldaskorð,
faldasól,
hringabil,
hringaná,
hringaskorð,
hringaslóð,
hringaþöll,
silkihrund,
silkilín,
silkilofn,
silkinanna,
silkirein,
silkispöng,
öldusólarrós.

**Konungur:**
fólknárungur,
vjestallsbaugahirðir.

**Björn:**
bjarkavaldur,
veturliði.

**Hestur:**
gjarðamar.

**Sækenningar:**
bárugeimur,
bárurein,
brimfold,
drafnariður,
drafnarslóð,
eyjaband,
græðismey,
hljesbraut,
hvalabeður,
marvallargeimur,
rastateigur,
sílalátur,
sílanaust,
sílarann.

**Bylgjur:**
græðismeyjar,
græðissprund,
hrannarsystur,
ránardætur,
ægisdætur.

**Skipakenningar:**
árasvanur,
bárumar,
brimfoldarhestur,
marargammur,
siglueik,
sigluhundur,
skerjahestur,
stafnahjeri,
stormgammur.

**Vopnakenningar:**
benjaljár,
benjavöndur,
eggjakólfur,

fjörsvafnir,
gunnlogi,
gunnþvari,
hjaltaljón,
hjaltavargur,
hræeldur,
óðinseldur,
mistilteinn,
uudahnífur.

Örvar:
gusisnautar.

Orrustukenningar:
eldþruma,
darrafundur,
hildardanz,
hildarleikur,
hjörvajel,
hjörvaleikur,
hjörvasláttur,
hjörþryma,
hræeldahríð,
járnaþrá.
orraveður,
skjómagnýr,
sverðakviða,
sverðaraun,
vigrafundur,
vigrasenna,

Himinn:
herjanssalur,
herjasalur,
himinsteigur,
ragnabraut,
ragnastóll,
ragnatjald,
sjafnarsalir,
sólarborð,
sólarhvel,
stjörnusalur.

Hrafn:
óðinshaukur.

Jörð:
dvalinsheimur.

Gullkenningar:
fingrasnjár,
freyjutár,
fræningsslóð
hrannareldur,
linnaból,
ormabyngur,
ósröðull,
rógmálmur,
sjóseldar,
öldusól.

Höfuð:
heilaslóð.

Auga:
brúnalogi,
hvarmagler.

Vín:
hornalá.

Óðinn:
faðir ragna.

Þór:
Þrumu-Týr.

Freyr:
Ársældargoð.

Ægir:
ver Ránar.

Yggdrasill:
aldameiður.
askur tímans.

Urðarbrunnur:
aldabrunnur.

Mímisbrunnur:
Mímislá,
Mímislind.

## ÓKENND HEITI.

Menn:
bragnar,
drengur,
drótt,
firðar,
garpur,
greppur,
gumi,
halur,
höldur,
lýðir,
mæringur,
rekkur,
sjöt eða sjót,
skatnar,
sveinn,
virðar,
ýtar,
þegn,
þjóð,
öld.

Konur:
brúður,
drós,
fljóð,
mær,
ristill,
snót,
sprund
svanni.

Niðjaheiti:
arfi,
hróðmögur,
jóð,
kind,
konur,
kundur,
mögur.

Maður konu:
ver.

Kona manns:
beðja.

Konungur:
bragningur,
buðlungur,
drottinn,
döggling ur,
fylkir,
gramur,
gylfi,
hari,
hildingur,
hilmir,
jöfur,
lofðungur,
mildingur,
niflungur,
ræsir,
siklingur,
sjóli,
skjöldungur,
stillir,
tiggi,
vísi,
þengill,
öðlingur.

Goðaheiti:
bönd,
goðþjóð,
himinbúar,
himintífar,
regin,
rögn,
sigtífar,
tífar.

Eldur:
glóð,
hyrr.

Sólarheiti:
eygló,
glóey,
sunna,
röðull.

Nótt:
gríma,
njóla.

Jarðarheiti:
fold,
foldarhringur,
foldarslóð,
frón,
grund,
hauður,
miðgarður,
láð,
slóð,
storð,
strind eða strindi,
vengi.

Hestar:
fákur,
gangvari,
jór,
mar,
reiðskjóti.

Trje:
björk,
eik,
fura,
lind,
meiður,
viður.

Sævarheiti:
alda,
bára,
boði,
breki,
djúp,
dröfn,
flóð,
gráður,
græðir,
hljer,
hrönn,
lá,
löður,
lögur,
mar,
rán,
röst,
unnur,
ægir.

Skipaheiti:
byrðingur,
dreki,
flaust,
fley,
flugdreki,
gnoð,
knör,
lungur,
súð,
skeið.

Vopnaheiti:
**brandur,**
**dör,**
**falur,**
**fleinn,**
**geir,**
**hjör,**
**kesja,**
**laufi,**
**mækir,**
**naður,**
**skjómi,**
**sköfnungur,**
**stál,**
**tyrfingur.**

Skjaldarheiti:
**barði,**
**baugur,**
**rönd,**
**targa.**

Bogi:
**álmur.**

Ör:
**bremsa.**

Orrustuheiti:
**róma,**
**senna,**
**styr.**

---

## MISLETRANIR:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Bls. | 5 | l. | 15. | les: | *Friðþjóf.* |
| — | 7 | - | 3. | — | *feigðardal.* |
| — | - | - | 14. | er: | *og* ofaukið. |
| — | 19 | - | 20. | — | *og* ofaukið. |
| — | 41 | - | 16. | les: | *óbœnheyrðan.* |
| — | 44 | - | 3. | — | *Ránar faðm.* |
| — | 48 | - | 13. | — | . í |
| — | 57 | - | 25. | er: | *upp* ofaukið. |
| — | 83 | - | 4. | les: | *greypt.* |
| — | 91 | - | 24. | — | *fláráð* (það er eigi misletrað, nema í nokkrum exemplörum). |
| — | 99 | - | 21. | — | *líktist.* |